## Andvarp fyrir sjúkum og nauðstöddum.

Lagið: Heiðrum vér Guð af hug og sál.

Drottinn Jesús þér veiti vægð, veiti þér Jesús frið og hægð, lýsi þér Jesú líknar sól, lífgi þig Jesú náðar skjól, stemmi Jesús þitt stygðar qvein, styrki Jesús þín marin bein, græði Jesús þín gjörvöll mein.

2. Augun Jesú þig áliti, Eyrun Jesú þig bænheyri, Höndin Jesú þér hagræði, Hjartað Jesú þér miskuni, Qvölin Jesú þinn kross mýki, Kraptur Jesú þinn mátt hressi, Líflát Jesú þín lífgun sé.

3. Blóð=undir Jesú blæði þér vægð, Blóð=sveitinn Jesú streymi þér hægð, blóðug mind Jesú bæti þitt kíf, blóðug tár Jesú gledji þitt líf, blóðug trygð Jesú bindi þér sig, Blóð=böndin Jesú leysi þig, Blóð=runninn Jesú bænheyr mig.

4. Drottinn blessi þig dýrðlegur, Drottinn geymi þig öblugur, Asján Drottins þig upplýsi, Ó! Drottinn Guð þér miskuni, snúist þér Drottins Auglit að, innsigli Drottins Friður það, allt sem í Drottni ég þér bað! Amen.

harm og neyd, hugprúdur stridi fram í deyd, sídan med sigri hætist.

11. Yfir mitt kalda andláts ból, ástvarm lind þín streymi, lífdaga minna sídursta sól, svo lát mig qvedja í heimi, ad skodunar-dags vid skjæra brún, skýni forklárud ein og hún, sálin fyrrd sútar eymi.

## Andláts andvarp.

Lagsh: Eins og sitt barn.

Lifandi Jesú! líknadu mér, lyndin eilífra gjæda, mínar forláttu misgjørdir, eg mæni hér, mæddur til þinna hæda.

2. Húmar nú degi, horfdu á þad, og hægdu mér líkhams þínum, sig nálgar daudans sveita-bad, eg sje ei annad, enn sorg fyrir augum mínum.

3. Lémegna stynur lífid allt, lífs-ædar taka ad dofna, mýktu nú, Jesú! meinid kaldt, mér vid þig haldt, medan eg útaf sofna.

4. Øll mannleg hjálp er enda kljád, allir senn frá mér snúa, flytji mig nú þín fødurleg nád, á feigins lád, þar fridadar andir búa.

5. Svo sem minn fyrsti vin þú varst, vert hinn sídasti líka, í heiminum mig á høndum

varst, úr hørmum skarst, hjástod veit enn svo ríka.

6. Ef eckért auga þyrmdi þér, þegar mín varst ad leita, harmþrúnginn, sveittur, blód-laugur, ber, þá bjargadu mér, í beyskum and-láts sveita.

7. Þú hefur allar þrautir mín, þjádur á herdum borid, skaut géf mér þitt, nær skeid-id dvín, sképnunnar þín, skýna lát sídarsta sporid.

8. Ljós varstú mitt vid laugar-ból, líf gladdi þín ásjána, vertu mér eilíft andarskjól, og unnar sól, øll þá heims ljósin blána.

9. Láttu nú einga lesti mín, leingur ad-skilnad gjøra, Drottinn Gud! milli mín og þín, mér hægdu pín, miskunsamasta vera.

10. Æ! taktu frá mér allt hvad mitt, er í daudans líkama, enn géf mér sídan aptur hitt, allt hvad er þitt, og ódaudleikann sama.

11. Vissa eg allri veraldar lyst, vyrdstu því mér ad dæma, eilífrar dýrdar óska vist, sem allra fyrst, og ángurs bikarinn tæma.

12. O Jesú! kom og ecki dvel, upptak mig snart af jørdu, ó Jesú! þér minn anda eg fel, ást-heitast þel, allt þad fullkomnad gjørdu.

## Saung-Visa um Dóms-dag.

Lagid: Lángar mig í lífs holl.

Hjarta, sál og hug minn; hittir qvída raun frek, þá eg dýrdar dóm þinn, Drottinn Jesú! mér tek, ímindadann eins finn, ill-dæmandi holdsbrek, stór mørg og straffs-sek.

2. Nádar þinnar lífs lind, leingi svølun mér gaf, hefur laugad holds mind, hegningunni stýrt af, og fyrna margri fleitt synd, framm í Jesú blóds-haf, øldungis á kaf.

3. En þar eg svo þrávallt, þína reidi sár-grem, og íllt ífyrir gott galdt, gjædsku þinni mín sem, brot hulid, byst allt, bøl, er fyrir dóm kém, ef þar ekki nád nem.

4. Þig ljúfann lít hér, Lausnari sæll minn! æ breida mót mér, mýskunar fadm þinn; raust hyrdirs øll er, yndæl med krapt sinn, nú stendur nádin.

5. En þar mun eg þig sjá, þessa vid heims qvøld, í dóms makt og dýrd há, dæmandi verøld, þjed helga þér hjá, og þín makt-ar hærst vøld; reynd verda rétt gjøld.

6. Þá mun og full-srekt, formyrkvud heims sól, túngls byrtu hætt hnedt, her

stjarna skyn sól, stormvidur vodalégt, vørn er qvída sísst ól, dunar um þinn Dóm-stól.

7. Brádt skynur bár-veld, bylgjan um hafs-lón, frestar ei flug-eld, fyrir þínum há-trón, ørmagna, sútsvelld, sjer Þjóda kyns ljón, heims alldar øll sjón.

8. Hver sem ei hel trad, hníga mun í dá, missir og med þad, mál, heyrn og vit sá, umbreiting í stad, øll verdur gjør á, holds edli hvers þá.

9. Vekur-sønnu vid stund, vor Drottinn alheim, hast eydir helblund, herkúdur flokk þeim, er vøtn og græn grund, gripu daudans vid eym, enginn býr ad seim.

10. Úr straum og eins fold, andlegt (sem fyrr dó), rísa mun hvers hold, høvundi klædt þó, óþreifanleg ein mold, í krapti stam-dró, med qvøla, med ró.

11. Saudi sködum svo frá, skálfur Herr-ann deilt sær, hægri skipar hlid þá, heiløg-um allhjær, vinstri skóu vert á, vondum veid-ur óvær, sá gramur, hinn hlær.

12. Þær skóan fyrr dóm; hin sídur-bjarta Guds ørn; komid blessud, fín, fróm, fødur kjæra míns børn, heidins ervid hýr-blóm, hærsta vissu án þurfti, eilíf skal veitt vørn.

13. Drekans úngum dír selld, dauda=reid mun og slá; burt þid í bál=elld, bølvadir mér frá, ønd heidri fjær selld, fjaudanum skal hjá, og mig aldrei meir sjá.

14. Þar fvelgir þann hóp, þanid vitis hel=gin, tanna gnýstran og óp, ei skortir þad kyn, Guds afar=grimd hljóp, gégn ædar, bein, sin, ønd qvelur og skin.

15. Djøfullinn dóm þá, dárleg fyrir verk sín, maklegann mun fá, (mín gledi er hans pín), ýskrandi heit, hná, helsótt er ei dvín, plágar þad pint=svín.

16. En Drottins øll hyrd, Englanna kjør=hag, med kjæti mun vird, merkir ei dóms slag, armædu alfyrrd, eilífaun sjer dag, vid saungva sætt plag.

17. Ad heyrdum úrskurd, alveldis mun sjed, ljós verda lífs hurd, læst hendi Guds med; eftstann og atburd, eydilegging heims qved, sannlega er svo téd.

18. Tekur himin heid=blár, hrøpunar dyn=brest, sellur og førgár, stjørbrotin vid mest; í eldi jørdin øll stár, ei gésur neinn frest, allt verdur líf lest.

18. Uppþornar sem sjón, sølur vinda burt flýr, heims=kríngla heil=slór, hverfur og øll

dýr, ei sem væri, allt fór, annar heimur þó nýr, heitinn er hag=skír.

20. Forlaganna fylling, fær þannig ver=øld, hún sem ádur um kring, illskunnar bar vøllð, sinn og vid ending, æru=snaudann hóp gjøld, seckja lætur sár=køllð.

21. Líkt sem nætur laun=þjóf, litinn síd=ur ad bar, Drottins tignar dag hóf; dæmist hver sem til var, fundinn ádur flest próf, frekar tekid mun þar, enn margur ætlar.

22. Hvad alvitskan sæl sá, samvitskan þad framber, ljóst og hulid mann má, med=kénna sem drýgt er, ónýtis ord fá, øll vird=ann dóm sjer, um viljann eins fer.

23. Þá mun hól og heims pragt, há=eygdum bak=vend, fylgi vina forlagt, fé=dýngjan øll brend, stodar engin stór makt, stétt verdur ei kénd, fyrr í dauda fullend.

24. Vitskunnar virt há, vegur sem létt fis, klókindin klock stá, kappræður fá gis, hugdyrfska fell frá, fegurd holdsins, láns glis, abl kulnad, eitt blis.

25. Einginn gáfa Guds hrein, gyldir fyrir þeim dóm, utan dygdin allein, óblás=inn, gagnfróm, hinna dýrd ei hót stein, hon=um yfir lífs=tóm, fauk hún sem følt blóm.

26. Þegar Drottinn dýr fer, að dæma þannig öll lönd, finna tára- fljóð ber, sæll aðra við hönd, roðin dreyra sín sjer, sem- ur því líkn önd, reiknings hótin við vönd.

27. Hver sem áður hóf stríð, hafði rétt og vel dó, skiptin merkja sær fríð, sellur ach, en rís hó, hér fyrr við hels tíð, himna Guð svo tilbjó, fullkomnast það þó.

28. Þegar tíðin þúng, vönd, þessi gríp- ur hold allt, minnstu þá mína' önd, minn Guð! og fast hafðt, þeirri við þína' hönd, þeink á það gjörvallt, Sonur þinn sem galdt.

29. Og þareð uppstátt, eitt sinn er gjört mér: hvörja sem í átt, eykin forðum datt hér, þar liggur hún; um lífs hátt, líkt veg- ar sett er, nær dagur þess þver.

30. Því qvakar mál mitt, á miskun þína, Jesú! veittu fylgi þá þitt, þú minn góði Jesú! nær dauðinn hvetur sverð sitt, á sálar hjúpinn, Jesú! still ángur, styrk trú.

31. Þíns hjarta heitt blóð, hel, undir, bæn, tár, andar sesi minn móð, mitt við hætta lífs fár, umskiptin gef góð, gjör sorg- ar fyllð ár, þegar sölur fer nár.

32. Nær eg skal nalsim, nálægjast þinn dóm, dýrðarfulli Drottinn! dyl nádar sist róm, líkama lát minn, lífs-dreyra þíns blóm, hreint bera, en hyl grýn.

33. Þess dauða-dóms er, dapurt yfir gékk þig, not gefðu nægst mér, nær kem á dóms stig, útvalinn í þér, eilífliga gjør mig, lífs hindin lóslig.

34. Allsvegar dýrð, æðst verði samin, þér æra, þrenn dýrð, og þakklætis staminn, af hjartans grunn skjært skírd, og skyldunni taminn, um aldir, Amen!

---

## Qvøld Vers.

### 1.

Lagið: Eilíft líkn er æskilegt.

Hylur oss nætur húmið enn, himinsins bjarta sól, þrefaldist æra þín, Drottinn! þú sem oss veitir skjól. Æ! vor misgjørda ótal ský, upprunnin þér til móðs! dag-synd-ir allar drekk þú í, dauða haf Jesú blóðs. Hjálpræðis ték ei hættsta gnótt, hellnæma gef oss værdar nótt; fel eg í þína hlífðar hønd, hús, qvinnur, menn og børn, eigið lán, heilsu,

líf og önd, líka minn ástvin hvörn, hvörsdar og allskyns heilla grönd, hepti þín fridar vörn.

## 2.

Lagid: Hæsti Gud! Herra mildi.

Dags ljóminn dvínar sætur, dimmunni þokar nær. Géf þú oss gódar nætur, grædarinn Jesú kjær! Engla vörn, værd líkama, veit oss og andar frid, aldri ver styggd og ama, unni þín mildin sama, ljósann dag vöknum vid.

## 3.

Lagid: Kjær Jesú Kristí.

Dýr dagsins ljómi, dvínar enn í stad; lífs lyst og blómi, lídur þannig ad, mædu, mold og dauda. Mildi Jesú, geym, söfnud þinna sauda, sól hedanni heim. Hrygd og ótta hrind oss frá, hrek á flótta synd og þrá, ystu nótt í yndi há, andar, vend af heim.

## 4.

Lagid: Eg veit, eina Brúdi stína.

Heims mind, hafid skyggir hjarta, himni slær ad ódt. Sæt lind, svölunar vors hjarta, send oss góda nótt; burt=hrind, böli, hrigd

og sótt; hugurinn hjá þér vaki, holdid blundi rótt.

---

Bænar=Vers syrgjandi manns.

Lagid: Konúng David, sem kénndi.

Jesús sem daudann deyddi, deyandi makt-ar hár, og eilíst líf innleiddi, láti sín blódug tár, sikra vor harma sár, helst í helfarar naudum, hans fadmi dreyra raudum, læstir svo lykjum brár.

---

# Andvarpan,

## Ut af Kristi Pínu og Andláts Ordum.

O Gud Drottinn, allrar sképnu Fadir!
sem arfleifd Sonar þíns mér tilskickadir.
Lofgjörd þína lystir mig ad vanda,
lifga þú mitt hiarta fyrir þinn Anda;
Kénna lát hann klæckvu brjósti minnu,
Kjærleik þinn ad skoda í Jesú pínu,
Og þad lausnar=gjaldid edla góda,
er gjördi hann þér fyrir sekann mig ad bjóda.
O minn Jesú! ædsti köngur dýrdar,
Tymdum framinn framar enn verdi skírdar,

(ádur sæll og yfirklæddur ljóma,
en nú vafinn sorgar hørdum dróma!)
Hverju sætir? hvers á eg ad njóta,
ad hverskyns qvalir lídur þú mér til bóta?
Er þitt silfur allt og gullid jardar,
alsnakinn þig kremja sútir hardar.
Samson sterka sje eg nú reyrdann bøndum,
sá mig leysti þó af daudans grøndum:
Deyddi Samson Dalilæ svikrædi,
daudur er Jesús fyrir mitt synda ædi.
Jósephs brædur Jacob sorgir tvinna,
Jeg nam meir til hefnda af Gudi ad vinna:
Syndir mínar Syni hans ekki nauda,
svo hann gjørdist hriggur allt til dauda
Og úthelltur eins og vatnid þunna.
Undur slík ei sjást edur heyrast kunna,
ad Skaparinn sá sem skepnu hverja gjørdi,
Skømm og qvalir af henni lída verdi,
Ad hann, sem tignar himna sveitin fríða,
hlýtur á jørd sem madkur einn ad stríða,
Og læknir sá, sem lýdum øllum bjargar,
sem lamb er staddur medal grimmra varga:
Sjálf náttúran sundur glidna nædi,
er signadur Jesús deyja hlaut á ládi.
Sól vard mis vid sína byrtu ad gánga,
er sinn Skapara leit á tránu hánga,
Noglum festann naktann med kórónu,

nístu broddar hennar Guds ásjónu,
Tárug augu tídt uppfyllast blódi,
tæmist sjón; en blærinn følnar rjódi.
Mun kóróna míns Jesú þess líki,
er maktar Kóngur Salómon bar hinu ríki,
sem gaf honum módir gledi hans á degi,
grátinn Jesús trúi eg af sinni þreyi.
Sál mín, þad má sorgar efnid heita,
sárlega høfum vid Drottinn gjørt ad þreyta.
Hendur og fætur hans med nøglum setta,
Hvada ódæmum, sála mín! er þetta?
Á brúdguma þinn bølvan løgmáls stridir,
sem bleŝsar þó og helgar alla lýdi.
Þú frídasta fødur elskan hreina,
Forsmán, brýxl og hádúngar mátt reyna.
Ædar dynja eins og vatna-straumur,
allt í kríng er spott og hædnis glaumur.
Sundur-rifinn sýnist hræi líkur,
Syndaranna líf-bartskérinn ríkur.
O þú Guds lamb! ó þú Jesú frómi,
æ hvar er þín Guddóms tign og sómi?
Angrast sál mín, allt mitt sinni og hjarta
því allt míns Jesú hold er slitid í parta.
Hvernig er þad hreina gullid blacknad,
horfid ljós, en nætur qveinid vaknad?
Er þad Jesú ásýnd þín hin frída:
sem allir Englar tilbidja og hlýda?

Er þad sá sem ummyndadist fordum,
úthellandi lífi og nádar ordum?
Er þad sá sem audgadi blá-snauda,
auma gladdi, lidna vakti af dauda?
Er þad sá sem inn í borg nam rída,
og allir héldu Zíons Kónginn frída?
Er þad sá, sem anda djøfuls hrekur,
en eingann hriggvann burtu frá sér rekur?

## Fyrsta Ordid.

Þú lífsins edla føgur Rósa!
Eptirdæmi þitt mér skín hid ljósa.
Forláts bidur fyrir þeim þig qvelur,
Fødur þíns í reidi medan dvelur.
Undarlegur ertu í verki og ordum,
Esajas þad vitni gaf þér fordum.
Usíam deyddir, ørk er snerti hendi,
enn hér lífa þeir þig berja vendi.
Spámenn þá er spjødu, slóst í brædi,
en spottara, þína leidst med þolinmædi.
Gezi lygi likþrá kom í vanda,
Ljúgvottar þér heilir móti standa.
Fyrir adra framdir þú vandlæti,
en Fødur þíns ressíng tókstu med þacklæti.
Vondsku mína varstu dýrt ad borga,
verdt er ad eg mætti af því sorga.

Hvad er madurinn? moldar: rík og sóla,
sem má í eingu neitt uppá sig stóla.
Hvad er Gud? sú hæsta eilíf vera,
hann kann allt med sínu ordi gjøra.
Æ! mér stendur ógn af Drottins brædi,
á einka barn fyrst leggur slíkt qvalrædi.
Hvers skal eg þá hans útlagi vona,
og hinn sekasti allra manna sona?
Minna enn Job eg mun honum kunna ad svara:
ef maktin hans í spurningar vill fara.
Haldi hann dóminn hlýt eg øllu ad játa,
heimti hann gjaldid sæst hefi til ad láta.
Hold uxanna og hafra blód ei þyggur,
hans er allt, sem madurinn sitt þó higgur.
Audgjørt er, eg ekkért hefi ad bjóda,
utan Jesú lausnar verdid góda.
Fyrirbón hans og frid: hrópandi dreyra,
fel eg mig í Guds miskunar eyra.

## Annad Ordid.

Dýrkud sé þín dásamlega mildi,
Drottinn Jesú, brunnur gjædsku fylldi.
Sem ræníngjanum ríkid himna gefur,
rétt svo skjótt hann bænar qvak upphefur.
Mikid er um máttinn þinn, ó Herra!
og miskun þá sem aldrei kann ad þverra,

Prábænugur þurfti Job ad vera,
þó honum vitni gott nam Drottinn bera:
Daga og nætur Davíd segist kalla,
en Drottins fjarlægd gjöri sér þúngt ad falla.
Prálega spámenn þeirra í bænum qveina,
þó nam Gud sér opt um stund ad leyna.
Prisvar flatur þú namst sjálfur gráta,
þín var qvøl ei sídur herdt úr máta.
En undir eins og illvirkinn þig bidur,
er honum heitin dýrd og sæla fridur,
Hugguni stór er hjarta mínu þetta,
Harmas bylgjur nær sem á þad detta.
Því eg veit, ad þú ert Jesús samur,
þjádum, hrelldum, æ miskunar tamur.
Æ! lát þú mig ord þín sømu heyra,
í andláti med trúar minnar eyra!
Í dag skal eg þér dýrd veita án efa,
Daudann mýkja og syndir fyrirgéfa.
Svo ad eg aldri sviptur neyd og hørmum,
sætt útblási, Jesú! þér á ørmum.
Géfst þá eilíf gledi værd og fridur,
genginn er mér Babýlons vatna nidur.
Géfst þá allt hvad gyrndin mín útkrefur,
Grátur og qveinan lángt sig burtu hefur,
Géfst mér sjálfann Gud minn þar ad líta,
gladt berandi pálm, stéininn hvíta.

Pridja

## Þridja Ordid.

Blessadur sértu Blómstrid allra dáda,
blídi Jesú! vardur lífs og náda.
Módur þinni maeddri af sorgar ecka,
Munadarlausri forsvar gafst hid þecka.
Einstaedíngum eykur þetta gledi,
en ýngra fólki lærdómur þó skédi.
Foreldrum ei fullkýngis ad neyta,
en fylgi, stod og adhjúkrun ad veita.
Elsku og vyrdíng einninn þeim ad færa,
allt má gott af Jesú daemum læra.
Saell er hverr um sínar aefi stundir,
sem hans dygda merkjum gengur undir.
En hvörju saetir, Herrann Jesú gódi,
ad híngad kémur nú þín blessud módir?
Hafdir þú ei hörmúng nógu stránga,
þó hennar sorg ei tæki þig til fánga?
Sverdid þad er Simeon fórdum spádi,
sárlega hennar módur hjartad þjádi.
Er brjóstmilkíng sínn blessadann nam hún líta,
blódugann, nakinn, þyrstann veina og síta.
En mátti ei svölun minnstu þér tilleggja,
milli streíngdum illvirkjanna tveggja.
Ecki tár af augum þerra hreinum,
edur skúla sár titrandi beinum.
O þú sál mín! illa er ockur farid,
ef vid klöcknum hér vid ecki parid.

Hvada skál? já, harðara demant ollum,
er hjarta ómýkt af Jesú tára follum.
Móses stafur miðlar vatni af steini,
en mildin Guðs frá ockur snýr með qveini.
Sál mín! Sál mín! svo búið má ei standa,
sjáum ockur bæði komin í vanda!
Mun það hæfa mér að sé eg kátur?
míns er Jesú fæðsla eiginn grátur.
Sem barn æpandi er beiska hegníng kénnir,
Brúðgumi þinn tár af augum rennir.
Látum þó hans læki hvarma skjæra,
Lysting ockar til hans elsku hræra.
Grátbænandi um gisting í hans sárum,
Græðarans undir kissum við með tárum.
Þær svo meigum þur og vorm innbyggja,
þegar lífsins harma jel áskyggja.
Friði Jesú! fyrir þín tár er bundu,
Forsvar vertu mitt á dauða-stundu.

## Fjórða Orðið.

Hveit er sem mér heyrist kall í duma,
Hafin sót enn nætur-skuggann rúma.
Þenur óðum þar minn Jesús grátinn,
þúngt af Guði klagar sig forlátinn.
Ertu ei það sem Faðirinn skírdann forðum,
fogrum qvaddi velþóknunar orðum,

Og þig Son sinn elskulegann tjádi,
ofan midt svo ræddin kom ad ládi.
Á vandlæting þíns Födur hýsi mig furdar,
fyrir hana gár þitt megn til þurdar.
Uppþornadann eins og skurnid tóma,
Unnusta þinn líttu, sál mín fróma!
Margplágadur Móises var talinn,
miklu þíngri písl er Jesús qvalinn.
Kalladi Jón af qvidi helvítis ádur,
Kristur er meir enn nockur madur hjádur.
Saklaus Jóseph sára reyndi mædi,
sárara er þó Belías strauma flædi.
Einginn madur um þad nóg kann bera,
eilífum Gudi má þad kunnugt vera.
Þó himnar bréf, en hafid ad bleki yrdi,
held eg einginn fullreikni þá byrdi.
Sandi þýngri sína eymd réd greina,
særdur Job, og vildi líka meina,
ad metaskálir mundu henni ei valda;
Meira er þó heims fyrir syndir gjalda.
Forspá Davíds farin er sig ad herda,
Forsmán lýdsins tekinn ertu ad verda.
Já, ein bölvan, jörd og sól er grætir,
Jesú minn! sem allra meinin bætir.
Myrkur daudans mektug um þig fljóta,
Mordíngjanna brýrlin ecki þrjóta.
Þér er géngid Guds dýrdar hásæti,

og gull-hörpunnar lofsaunguriñn mæti.
Þad Guds Englar þínum heidri játa,
Þrælar Satans framm í spotti láta,
Heilsan, lotníng, hesdar titla vidur,
heiptar atvik þó ei falla nidur.
O Gud nádi! eckért má eg duga,
þó ad þér, Jesú! feginn vilda eg duga.
Keppinn var eg í qvalir þig ad hýda,
Kraptalaus, ef med þér skal eg strída.
Þó kann ekki þess mín trú ad dylja,
þín er qvöl ad Födursins eiginn vilja,
Alyktud, og ad þú skulir deyja,
eingum til svo hæfir um þetta segja.
Ljónid sagt ad lambinu kunni vægja,
Lídan þinni einginn býdst ad hægja.
Allir vinir eru á burtu snúnir,
allir, já, sem rik fyrir vindi flúnir.
Hér er ei nema hryggur sveinn og módir,
harmandi vid kross þinn, Jesú gódi.
Einginn þinni ógnar mædu léttir,
Angursleginn huguriñn minn ad fréttir:
Hvar er nú allur hópur þeirra lýda,
sem heilög ord þín mentudu svo vída?
Hvar er þad fólk sem hátign þína leiddi,
heim í borg, og veg med sóma reiddi?
Hvar eru nú þau níu þúsund manna,
er nægdar sadníng leist fyrir húngur kanna?

Hvar er blindur, haltur, líkþrár, daudur,
og hver einn grædður Ísraëls borgar saudur?
Hvar er tárugt túnglsjúks fødur auga,
Því tekur þad ecki, Jesú, þig ad lauga?
Hvar er sárar kránkur þjónis madur?
Því kémur hann ei þar Jesús er fjøtradur?
Hvar er qvinna er kysti þínar fætur,
kann hún Jesú eingar harma-bætur?
Hvar er qvinna qvitt vid flódid rauda,
kénnir hún ei til, Jesú, þinna nauda?
Hvar er Kanversk-kjæn í bænar ordum,
Því kallar hún ecki: Jesú! nú sem fordum?
Hvar er líflausins hór-konan med qvída,
Heyrir hún ei hvad Jesús verdur ad líða?
Hvar er himnesk herskaranna prýdi,
Því hjálpa þeir ecki, Jesú, þér í strídi?
Hvar er Fødurs hjartad elsku heita,
hefur þad einga miskun þér ad veita?
Hvar er dúfan dýrdleg heilagur Andi,
Því dylur hún sig nú huggun þér veitandi?
O þú Jacobs edla stjarnan skæra,
allt mætti þín blódug tilsýnd hræra!
Þinn Gud smurdi þig med helgum Anda,
þó er líf þitt komid í sárann vauda.
Á nú ljósid allra manna ad deya?
O minn Jesú! hver kann meir ad þreyja?
Á nú kóngs-tign eilíf þín ad þrotna?

O Þú hæsti Drottinn allra Drottna!
Edur ordid eilífs lífs ad Þagna,
af hverju skal hjartad mitt Þá fagna?
Edur spekin urphædanna dvína?
O minn Jesú! hresstu trúna mína!
Þad sem David Þig um gjørir rita,
Þad er í sorgum gledi mér ad vita:
Ad eilífu, segir hann; ár Þín gjørvøll standa,
og eingin rotnun kunni Þér ad: granda.

## Fimmta Ordid.

Israels lindir allar senn til forna,
á Elíæ døgum tóku mjøg ad Þorna,
Því himininn tani héldt Þar regni sínu,
heyri eg Jesú, íminnd Þinnar pínu,
er Þig brunnur allra lífsins gjæda,
afur: pressar daudans hiti og mæda,
og sá Þorsti er eykur megnid qvala;
O ad tár mín kynnu Þér ad svala!
Hvert er ei Þetta hann sem fordum gjørdi,
Haf og strauma, Þó med einu ordi?
Og øllu Því sem andardráttinn hefur,
Endurnæring, líf og krapta gefur.
Samsons hættann sefadir Þú Þorsta,
súr forgiptin býdst Þér nú til kosta.
Vín í Cana veittir hjálpar Þýdur,

Jafnvaleysis bruna qvøl þó líður.
Samsoni kjálkinn svala ' dryck ei sparði,
Sínai klettur draup er Móses barði.
Kallið Spámanns krúsir fylla náði,
Kveinandi fann Agar brunn á láði,
Zebaoth Drottinn! segðu mér hvað veldur,
Svølun einga Jesús fær að heldur?
Sá þó trúr og sannorður má heita,
em og gjørði forsjállega breyta.
Svo sem Job bað sínum degi fyrsta,
varta myrkrið Jesús fær að gista.
Hann með Davíð held eg spyrja megi,
vert þér gleymist miskunsemin eigi?
O minn Jesú! ei mun það svo heita,
innanskamms mun Drottinn hvíld þér veita.
Guð er sami í gjær og í dag án efa,
n grimmdar reiði hans ertú að sefa.
Þorsta eilífann þetta frá mér tekur,
þó eg sé við øll þín boðorð sekur.
Trúar og elsku tár mín skaltu hafa,
n trygða pant þinn kýs eg mér til gjafa.
Meðan í eyðimerkur bygð eg hjari,
svo minning þinna písla hjá mér vari.

## Sjøtta Orðið.

Sigur boðar sól yfirlýsandi,
segir Jesús allt fullkomnað standi:

Fyrirheit, løgmál, figúrur, spádómar,
fridstillt reidi, qvittadar syndir grómar:
Einnig sundrad okid daudans stránga,
út hefur Jesús leyst oss sína fánga,
voldugur af vítis hel: grysjunni,
Vatns hvar dropi einkis svalar munni.
Gøddum bundinn, gistur ángistinni,
af grisjunni, hvar ecki vatn er inni.
Allt er uppfyllt, ó minn Jesú gódi!
Øll forlíkun skéd í þínú blódi.
Allar qvalir íllvyrkjanna syndar,
allar þínar tilfinníngar píndar.
Fullkomnustu fórn má þetta greina,
frí slapp eg med blóds ádreifing hreina.
Heilagt klædi hlaut Aron af Gudi,
hann þá kénndi Israels søfnudi;
En eigid blód sitt ædsti Biskup hefur,
og allann sig í sloppi þessum vefur.
Blómleik þínum, blídi Jesú! hrósar,
Brúdur þín, sem Salómons diktur glósar.
Vid gull og liljur glóandi hún þér jafnar,
af gyrnd og elsku til þín, øllu hafnar.
En eptirlíking ertu nú hin mesta,
Ormi þeim sem Móses nam uppfesta.

Lindar og rádýrs hún þér líking velur,
Harma leit, ef frá henni veikst, ei tvelur.
En madki nær enn manni eg þig dæmi,
Mál það hygg eg Spámanns vitnid sæmi.
Því sár, kaun, benjar, svídi, hrygd og pína,
Jo eg qvelur hjartans elsku mína.
Cedrus vidar Salómons húsid fríða,
sýnist og hún vilji uppá þig þýda.
En hér á trénu hef eg þig ad skoda,
hætt inngeinginn dandans ytsta voda.
AE! þau undur, öll yfir undur gánga,
ad þú, Drottinn! lídur qvöl svo stránga!
Meiri furdu mér allt þetta gefur,
enn Móises af logandi runni hefur.
Og eg mætti útaf nærri deya,
því ork herteknа sáttmálans má segja,
nú af flocki Philistæa maka,
sem festann þig á kross til heljar blaka.
Hvad skal mér ad herma um þetta fleira?
Hjartad vesst í sorgunum því meira.
Klýstrud blódi klædi þín má skoda,
sem kyrtil þann er Jacob hrygd nam boda:
Hel: risinn er himna Jóseph gódur,

mín hjartans gledi, lyst og sálar fódur.
Vegferdar þó vonda reyni eg daga,
veit eg þetta allt mun sídar laga,
Í Gosen himna, Guds Son dýrdar frægur,
gjørast mér þá horfin rauna-dægur.
Hús vil eg því fødur húsa leita,
af feitum kálfi sædníng mun hann veita.
Utsóa þó arfi hans eg nædi,
eflaust mun hann géfa mér dýrdar klædi,
þó ad barns nafn þurfi hann mér ei veita,
Præll hans kýs eg grátfeginn ad heita.
Fullt mitt hjarta fyrir þér jafnan standi,
Fadir, Sonur og Gud heilagur Andi!
Fullt af ydran, fullt af ástar tregq,
fullt af trú og dygdum alla vega.
Fyll mig krapti fullnustunnar þinnar,
Fullkomnari sáluhjálpar minnar.
Fullkomin þín forþénustu prýdi,
Fullkomnunar dýrd mig sídar skrýdi.

## Sjøunda Ordid.

Fól sinn anda Frelsarinn Guds í hendur,
følur á krossi því nærst vard ørendur.

Hjartad stúngid hans var midt í sundur,
hverju gegna, Jesú minn! þau undur?
Sannlega má mikt sundur rifna hjarta,
sem Musteris fór tjaldid í parta.
Er nú, sál mín! ockar Jesús daudur?
Út af mætti eg falla því á haudur.
Dug minni enn Daniel vard fordum,
þá Drottinn taladi vid hann sáttar ordum:
Og Manoha, sem meinti sig ad deya.
Mikid er Jesú, eptir þig ad þreya.
O! ad eg mætti ort upp hédan keysa,
og med þér í dýrd himneska reysa!
Æ! hvar mun mig oki svipta nauda,
og aumann frelsa af líkham þessa dauda?
Svo sem hjörtur svalun gyrnist fánga,
sálu mína allteins til þín lángar.
Því þad góda gjöra sem eg skyldi,
gjét eg ecki, Jesú minn! þó vildi.
Bid mig lodir vondskan meir enn bæri,
og villir fyrir mér lífsins sjónar færi.
Heims af lúa og hjartans ángri saddur,
hér em eg milli vonar og ótta staddur.
Æ! mig lángar ósedjandi hugar,
upp í hæd því sorgin frekt ad bugar.

O! ad þú vildir ofan um himna gánga,
og mig leysa bundinn hér þinn fánga.
En medan stundin mín er ecki ad deya,
mænandi til himins vil og þreya.
Í blóð-undum, blessadi Jesú! þínum,
og bidja um vægd á syndagjøldum mínum.
Grunda, sál mín! gjør tídindin þessi,
Gud í Kristó deyr á hørdum krossi.
Ástmenn Jesú allir harma og gráta,
álengdar, sem vissu hans qvøl úr máta.
O mín sál! ef eckért tár þitt hrinur,
ætlar þú ad Jesús sé þinn vinur?
Hinn heilagasti helju kannar sára,
hvernin skyldi sekur bindast tára.
Minna var þad Móses Guds mann deydi,
í mørk, þó fólkid lengi eptir hann þreydi.
Minna ad Davíd margar konur þrádi,
minna þegar hann barnid gráta nádi.
Minna þá hann mesta vin sinn þreydi.
Minna þó ad Absalon hans deydi.
Minna ad Agar mæddist yfir syni,
minna þó vér grátum holla vini:
Eingin hefur þó ordsøk til ad gráta,
eins og eg, þad skyldt er mér ad játa.

Því öllum meira eg hefi syndir framid,
e hvad hafa þær Jesúm nýst og framid!
Hærstu nádar hylli má þad lýsa,
hann mér segir þeirra qvittun vísa.
Jeg hefi rjódur, Jónæ fegra hlotid,
Jesús er mitt einka varnar flotid.
Opid stár hans elsku hjartad góda,
Arma rauda gjörir hann mér ad bjóda.
Hans er nafnid: hetja, rád og kraptur,
hann kann sig af dauda ad reysa upp aptur.
Fadir eilífur, fridar höfdíngi þægur,
fyrr varstú enn nockurt veraldar dægur.
Þú laukst upp munni lambi hvörju frægri,
líka bók á Jóhannis sjónar dægri.
Heldur vil eg hjá þér vera í sorgum,
enn herrum lands þó ríkum stýri borgum;
Fari allt þad sem fánýtt er á jördu,
þad frelsar ecki af daudans kífi hördu.
Híngad fyrr í heiminn barst eg nakinn,
hryggur, sár af módur-lífi klakinn.
Sá mig þá af synda-böndum leysti,
saddi, gladdi, honum eg einum treysti.
Þó í daudans dymmum ráfi eg skugga,
Drottins nálægd kann mig sætt ad hugga.

Davíd kátur Drottins ørk lék nærri,
dægilegri gledi er þetta og stærri.
Hann qvadst gladur húss Drottins til gánga,
hér má eg þó sætari unad fánga.
Þó med Páli þurfi eg margt ad lída,
þad er vel, því senn mun búid ad stríða.
Skeid lífdaga skjótt mun komid á enda,
í skaranum dýrdar fæ eg þá ad lenda.
Kórónu mun Kristur mér þar veita,
og klædi hrein, sem Jóséfam vid nam breyta.
En ecki mér þó einum, Páll réd svara,
øllum heldur rétt: trúadra skara.
Gud himnanna gefi oss þad ad hljóta,
og gjædsku sinnar eilífslega ad njóta.
Honum prís og heidur verdi samin,
hér í nád og sídar um eilífd, Amen!





# Sidari Parturinn
innihelldur
## Versa-Flock í Sam-sætum
tilætladann,
## Oskaljód, Aruminníngar Vers,
og annad fleira smávegis.

## Versa-Flockúr,
sem brúkud hafa verid í Brúdkaupum og Erfis-dryckjum.

### Fyrir Brúdargángi.
### 1. Vers.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hvørr sem kann.

Allt vort rád, áform og háttalag, í fridi og nád, farsæli nótt sem dag, grædarans Jesú gjædskan þýd, og géfi þad bædi, til Fødursins dýrdar fyrr og síd, framqvæmast nædi: Køllum grid, af kraptarins sæti; følk-

um við, Frelsarinn gjæti, øllum lið, lykinn hans bæti, inngáng, framgáng, útgáng vorn, haldi í snilldar háttum rétt, heilagur Andi, valdi skylda sáttum sett, sóma styrkjandi.

2. Vers.

Lagið: Jesús, sem að oss frelsaði.

Lifandi Jesú! láttu vort, lífs skeiðið jafnan renna, þángað sem liggur lífsins port, lífið svo mættum kénna, til þessa lífsins þrautum frá, þitt líf oss forðum réði, unn voru lífi æ þér hjá, eilífrar brúðkaups gleði.

3. Vers.

Lagið: Upphef eg augun mín.

Af hug þess óskum vær, allir til samans hér, fylgi yckur fjær og nær, frægur Guðs Engla her, allri lífs eydi neyð, ástúðlegt verndar lið, gángið svo greiða leið, í græðarans Jesú frið.

4. Vers.

Með sama lag.

Guðs Føðurs gjæðsku dáð, græðarans völdug hlíf, og heilags Anda náð, yckar bevari líf, gángið í góðum frið, Guði befalaðar, hans greiði hjálpræðið, hvert spor til fagnaðar.

### 5. Vers.

Lagið: Himna rós, leið og ljós.

Drottins náð, lífs um láð, láti skarta, hverju sinni, úti og inni, eg bið: Yckur frægð, yndis hægð og audnu blóma, gángið þið, Guðs í frið, gjæddar sóma.

### 6. Vers.

Lagið: Sjá þig, mín sál! um kring.

Føðursins friðar-báð, Frelsarans Jesú náð, og heilags Anda gjæði, øllum lífs-heillum gjæði, yckur svo aldrei þrotni, allskonar hægð í Drottni.

### 7. Vers.

Lagið: Þér Drottinn þacka eg.

Frelsarans føgur náð, friður og hjálpræði, með hærstri hlífðar báð, hans Engla jafnan sé, á øllum yckar vegum, sálu og lífi sætt skínandi.

---

## Þegar Hjónaskál er innborin.

Lagið: Herra! þér skal heiður og vyrðing greiða.

Herra Guð! sem hjónabandið settir, og hefur það blessað fram yfir aðrar stéttir,

þínum ráðum, gjørst aðgáðum, géfðu báðum, fylgja í náðum eptir.

---

## Fyrir Hjónaskálum vandalausra.

### 1. Vers.

Lagið: Þá Ísrael fór af Egyptó.

O Drottinn Guð! sem elsku og náð, auðsýnir þeim er kjærleiks dáð, halda með heiðri sønnum, útvalin brúð-hjón æruverð, andar og lífsins gjæfu mergð, hønd þín begáfi hrønnum; láttu þau gánga út og inn, í þínum friði, Drottinn minn! veittu þeim styrk í vandanum, vert þeirra líf í dauðanum; æ géf þeim heppnisk unun stór, í eilífum dýrðar Jórsala kór, Halelúja! Halelúja!

### 2. Vers.

Lagið: Rís upp Drottni dýrð.

Náðin gjæðsku gjørn, Guðs á himna trón, yckur umfaðmi, æru dygðug hjón, eckert ami tál, orð, verk, sjón, heyrn, mál, og allt hvað áhrærir, yckar líf og sál, anníst alla stund, almáttugur Guð, í vøku og værum blund, verið marg blessuð; Frelsarans

fridur, fagur veitist ydur, hér, og um alla, eilífd haldist vidur.

### 3. Vers.

Lagid: O Gud vor Fadir! sem í himnaríki ert.

Sá Gud er ædstur setti í fyrstu sinni hjörd, hjónaband veglegt heims á lád, helgum prýdt nádar gjædum, ydkar sé farsæld, audna, líf og yndi á jörd, inngeingid stand med allri dád, umgyrdi krapt af hædum; heilags kjærleika ljómi list, láng= gjædar æfi = mundir, ydkar á milli, en ömun bist, öll hverfi lífs um stundir, frelsid hérvistar fullkomnist, fridarins merkjum undir.

### 4. Vers.

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

Unni ydkur Jesú eilíf nád, í hans miskunar skaut, innvafin séud æ med dád, eingin svo grandi þraut, hjónabands tryggdar heilög ást, haldist med æru og spekt, ljós ydkar bygda ljómi skærst, lof eblid Drottni þekt, allskyns farsældar hlýum hag, haun ydkur gjædi nótt sem dag, inn til þess fridar eilífa nægd, erfid á himna=trón, hvar mæda, kíf og mein eru lægd; mettud af dýrdar sjón, lifid þar æ med yndis hægd, andar vid skilin tjón.

### 5. Vers.

Með sama lag.

Í Jesú nafni eg þess bið, alleina sælann Guð! yckur brúðhjónum leggi lið, líknar-vild hans blessuð, undir hans þýðum ástar væng, yndi, vernd, heill og náð, í gaungu, stöðu; sessi og sæng, sé yckur jafnan tjáð; framgángið svo með lífsins lyst, lofið og prísið Jesúm Krist, allskyns mannrauna mýki þraut, hans miskunar höndin góð, fram til þess helga friðar braut, fráskilin hrigðar móð, inngángið beint í Abrahams skaut, þar útvalin fagnar þjóð.

### 6. Vers.

Lagið: Lífs reglur hollar heyrið enn.

Allskyns farsældum æru og bygð, umfaðmist brúðhjónin, þróist í Guði þeirra trygð, þryckist öll hörmúngin, von og þolgjæði verji stygð, við andar skilnaðinn, hrópi þau inn í himna bygð, hver Jesú blóðdropinn.

### 7. Vers.

Lagið: Herra! þér skal heiður og vyrðing greiða.

Hæckist yckar heiður og skoð án galla, hlýði báðum friður og gleðin snjalla, safnist

tryggdir, dafni dygdir, dofni hrygdir, sofni stygdir allar.

### 8. Vers.

Med sama lag.

Aldrei yckur líf med heilsu blóma, luckn, dádum, yndi, frid og sóma, heppin strídid, stødug bídid, standid prídid, Guds innlídid ljóma.

### 9. Vers.

Lagid: Far heimur farsæll.

Lífid æ lof sæl! lífandi Gudi, svo hjartans yndæl, ad allar hans trygdir og ást-hylli neit, á yckur skíni, sem morgun sól heit, heid-geisla rósanna hellir á krans, himnar gefi ans, himnar gefi ans.

## Foreldranna Brúdkaups vers.

### 1. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Blessa þú børnin mín, blessada mildin há, byggi þeim blessan þín, blessad hús jørdu á, blessadu trygda band, blessadu verk og mál, blessa nú beggja stand, blessadu líf og sál!

## 2. Vers.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál!

Himneski fadir! höndin þín, högunum dilli barna mín, audga þau vitsku, aldri og nád, annastu þeirra líf og rád, elska þín bid eg einnig sé, ástvina þeirra hjálpræði, alla naud-þurft uppfyllandi.

## 3. Vers.

Med sama lag.

Barnanna minna blessa þú, brunnur misk-unar, ó Jesú! líf, önd, ástvini, heidur, hag, heilsu, rád, efni, verkalag, allskonar dygdir þróa þeim, þau ad afdrifnum sorgar-eym, set vid þitt bord í sælli heim.

## 4. Vers.

Lagid: Nú bid eg Gud þú nádir mig.

Jesú brjóst-harmur, svida sár, sveiti, qvöl, undir, bæn og tár, öll fyrir-bón og eilíf trygd, allann frid, blessan, heidur og dygd, sálar fögnud og synda bót, sigur óvinum fast á mót, huggun og þol í hverskyns pín, hærst vekur veiti, börnin mín!

5. Vers.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Blóds og teingda børnum mínum, blídi Jesú! veittu lid, út = ryck þeim af ángurs pínum, allar syndir qvitta vid, ver þau undir vængjum þínum, veit svo loksins himna frid.



## Barnanna Brúdkaups vers.

1. Vers.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Míns kjæra Fødur, mildi þín, minn Drottinn! ebli hægd, æru fróma skjúp = módur mín, mettadu sóma nægd, heilagt inngeingid hjóna = band, hér í stad blessa þeim, æ medan lífsins leidar stand, lénar í þessum heim, innbyrdis frid og eindrægni, elsku, von, trú og gudrækni, láttu þau styrkja bædi best, blóds undir merkjum þín, géf þeim ydrunar gyrnd og fresk, géd = fró og þol í pín, sídan þá glasid lífs er lest, lifendra gledi vín.

2. Vers.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug og sál.

Allskonar blessan audga þú, elskulegasti

minn Jesú! Fødur þíns undir fridar krans, Fødur míns ráð og qvinnu hans, bestu manndygðum bædi prýð, blessaða géf þeim sælu tíð, eptir hérvistar unnið stríð.

3. Vers.

Lagið: Á einn Guð vil eg trúa.

Láttu gjøf líknar þinnar, lifandi Guð í himna=rann! unnusta móður minnar, mér í Føður=stað skickaðann, alla tíð endurnæra, auðgaðu beggja ráð, hverju sem heitir æra, hyrdir og eykur dáð; synda bót, sálar-friðinn, samvitsku rósemi, veittu þeim lífs, en liðin, leið heim í þitt ríki.

4. Vers.

Lagið: O vér syndum setnir.

Blessa þú, Guð minn góður! gjørsamið egta ráð, stjúp=føður míns og móður, með þinnar gjæðsku dáð; veittu þeim værð og yndi, vernda þau nótt sem dag; elska þín að sér byndi, allann þeirra lífs hag, géf styrk og þol í þraut, þau leið um fridar braut, inn í Abrahams skaut.

5. Vers.

Lagið: Þá linnir hér mín líkhams vist.

Foreldra minna fundinn hag, farsæl þú,

Jesú gódi! nádar hønd þín um nótt og dag, nægstar þeim heillir bjódi. Æ! géf þau lifi í ást og trú, egta=stand þeirra blessa þú, veit hægd, en varna módi.



## Systkyna og Ættmanna Brúd-kaups vers.

### 1. Vers.

Lagid: Á einn Gud vil eg trúa.

Guds hjarta gjædskau fróma, géfi yckur nægst af krapti sín, hærstann frid, heill og sóma, hjartans ástúdleg systkyn mín! Egta=bands edla trygdir, elskan hans vardveiti, allar andlegar dygdir, innplanti sálunni; brot qvitt og bót á mædum, bádum eg yckur kýs, sídan á himna hædum, heilag=ann sælu prís.

### 2. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Géfi yckur gledi og frid, Gud sem á hæd=um skín, al=dygdum audgist þid, ástúdleg systkyn mín, trygd haldi kjærleiks kaup, kes=

jist allt rauna safn, inn til þess æfi=hlaup, endid í Jesú nafn.

3. V e r s.

Lagid: Rís upp, Drottni dýrd.

Guds á himna hæd, heiløg vísdóms náð, systkyn mín sælu, sendi yckur hjálpar rád, blessi trygdaband, beggja fylli stand, heill, ástum, yndi, ei svo kénni grand; Drottins elska dýr, dygdum krýni sál, hressi, blessi hýr, hyggju verk og mál, lífs leidir allar, láti sídan falla, tryggvar med æru, til Israels fjalla.

4. V e r s.

Lagid: Hæsti Gud Herra mildi.

Luckų med lífs føgnudi, lofstýr og æru skín, verdi yckur veitt af Gudi, virdugleg ætt=systkyn, hjónabands helgar trygdir, heit vermi Drottins ást, lifandi lýsi dygdir, ljóma Guds eptir hrygdir, gledji yckur skodun skárst.

5. V e r s.

Lagid: Má eg ólucku ei móti stá.

Systkyna minna sæmd og rád, sætusta náð, føgnud og fridar gjædum, begáfa Drottinn þrennur þú, þeim æ og nú, forda

fynd, fári og mædum, innbyrdis trygd, alls-konar dygd, lof, lán og fé, þeim legg í tje, hólpinn gjør lofs á hædum.

6. Vers.

Lagid: Mikill farsæld mætir sá.

Festi nú Jesú fridur og náð, fadmløgum kraptar sín, yckar líf, heidur, ønd og ráð, elskuleg systkyn mín, hans ástar gjæda leg-andi ljós, lýsi yckur jørdu á. Lífsins kjør-yndi, heill og hrós, hreppid, en einga þrá; unni farsældum yckar merk, allshúttud Drott-ins handaverk, ratist æ sefud rauna gøll, ríki mann-dygda blóm, lifid svo blessud ár-in øll, ást-heit og trygda fróm, fagnandi lofs í himna-høll, heiløgum eptir dóm.

# Brúdgumans eigid vers.

Med sama lag.

Herra sem kosid hefur mér, hjúskapar veglegt ráð, veittu mér styrk, ad vel sem ber, vilja þíns fengi eg gád, krøptuga von og kjærleiks dygd, kristinn frid, helga trú, gjædsku, hreinlyndi, glæsta trygd, Gud! mér innplanta þú; æru, kjør, eignir, minni, mál,

mitt ráð, athafnir, líf og sál, fel eg himneskri forsjá þín, forða mér glæpum við, tilgéfna láttu misgjörð mín, mæddum veit þolgjæðið, einninn, að deyfðri dauðans pín, dýrðlegann himna frið.

---

## Brúðarinnar.

Með sama lag.

Eg þig og beiði ó Jesú! æ vertu styrkur minn, að eg í hjartans ást og trú, umfaðmi viljann þinn, hógværð, skírlífi, hreina trygð, heilagann frið og spekt, já allskyns sóma, æru og dygð, unn mér að stunda frekt; bjóð þú að himnesk blessan þín, bevari gjörvöll efnin mín, og öllu því mér ama kann, umvendi svo til lags, helið þá særir hyggju rann, haf þú í friði strax, mig og ástkjærann egtamann, til eilífs gleði dags.



## Eckjunnar Brúðkaups vers.

Með sama lag.

Eilífi Guð! eg þacka þér, þitt ráð sem hulið var, forganna braut þú sýndir mér, síðan veg huggunar. Taktu nú enn við

máli mín, mitt ráð og lífsins dag, fyrir-heitinni forsjá þín, faðmaðu nótt og dag. Lát mig þér hærstann heiður tjá, hjóna-bands skyldu þar með gá, í allri mæðu legg mér lið, fyrir Lausnarann Jesúm Krist, hærstu mann-dygðir haldt mig við, hrek synda gjöld-in ytst. Önd minni géf svo eilífann frið, eptir þessa heims vist.

## Eigingiptrar ekkju vers.

Með sama lag.

Mildasti Guð! sem mér hefur bætt, missir ástvina þann, sem áður hafði gédið grætt, en gleðina sett í bann; snú þú enn ástar aug-um þín, að mér um dag og nótt, breið yfir hús og börnin mín, blessaða friðar gnótt, farsæl mín kjör til fagnaðar, fyrirgéfðu mér syndirnar, lát ecki djöful, hold né heim, hrekja mig þér í frá; sveipa qvenndygðum sinnu geim, siít einga lát ofþjá, önd mína dýrðar seðji seim, sjón þíns auglitis hjá.

---

## Brúðhjónanna sameginlegt vers.

### 1. Vers.

Lagið: Eilíft lífið er æskilegt.

Ó Drottinn Guð! sem hér í heim, hjóna-

band stickadir, allra lífs heilla sælum seim, síðan begáfaðir, bæði samhuga biðjum þig, blessuð heill syndugs manns, fær ockar øll á feldar stig, fótspor til himna ranns, myk allann qvíða, mein og grønd, miskun þín hjákri lífi og ønd, æ géf til náðar al=eblið, innbyrðis rækjum skærst, hjartans eindrægni, högvært géð, hreinlífi, trygð og ást, unn ockur síðan æ þér með, í eilífri dýrð að sjást.

## 2. V e r s.

Lagið: Lofið Guð! lofið hann hver sem kann.

O Jesú! að þér í miskun tak, ockur nú, og yfir lífs heillum vak, gjørvøll ráð og efnin øll, ást þín viðhreisi, tæti frið, en rými gøll, rík høgum blessi. Heitust trygð, hjartans ei þjáist, neytust hygð, nær ockur sjáist, eitruð stygð, øll í burt máist. Láttu, Drottinn! líf og ønd, hjá þér síðan hljóta not, himneskrar sælu, hjá þér síðan hljóta not, himneskrar sælu.

## 3. V e r s.

Lagið: Upphef ég augun mín.

Guð Drottinn, gjæðsku hreinn! sem gøfgaðir ektastand, blessa þú ockur einn, inngengið hjónaband; veit yndi, hafna hrygð,

heyr bænir, lýkn ei tef, þryck syndum, þróa bygd, þol magna, sælu gef.

---

## Fyrir Kóngs skál.

### 1. Vers.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Voldugi Fadir! vernda þú, vors Kóngs hásætid, haldt honum æ vid helga trú, hans ríkjum veittu frid, styrkur þíns anda stidji rétt, stjórnendur kristninnar, sérhver ad lifi í sinni stétt, sem þitt bod útvísar. Varna stirjöld og villuróm, vidhaltu þínum kristinndóm, heilaga trú og hreinann sid, helsting Andskótans megn, blessa vort land og bygdar=kid, bistur oss aldrei hegn; handleid þitt fólk í himna=frid, heims alla mædu gegn.

### 2. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Auk þú med æru plag, allskonar lífs fögnud, Kóngsins Hátignar hag, heilagi sterki Gud! hans ríkis rád og lönd, réttum frid audga þú, veit engin villu grönd, véli sann helga trú.

## 3. Vers.

Lagid: Á einn Gud vil og trúa.

Gjædska þín, Gud! bevari, gjørvallann Kóngsins tignar=hag, lýd hans og lønd forsvari, láng=gjædann veiti stjórnar dag, yfir= og undir=mønnum, ebli frid, heill og nád, styrk í embættis ønnum, einnig kostgjæfid rád, þína dýrd, sinn veg=sóma, sid og hag Fødur=lands, ebla med æru fróma, øruggir til daudans.

## 4. Vers.

Lagid: O vér syndum setnir.

Kristí krapta gjædi, Kóngsins tignar stól, stidji, blessi bædi, besta hlífdar skjól, vid óvina styggdum, veri Drottinn hans, dyrfi í øllum dygdum, dýrann Fødur lands, allt hans undir=rád, audgi frid og nád, Drottins Jesú dád.

## 5. Vers.

Lagid: Blídi Gud! børnum þínum ei gleym.

Kóngsins rád, kyn og þjód ríkisins, styrk í nád, sterki Gud fridarins! veit hans hjarta ad vilja þín, ver øllu grandi, géf ad skyldu gjæti sín, gégn hyrd í landi, kristinndóms,

kjør-heill svo nædi, fridar blóms, fylgja lát gjædi, villu-róms, varna skadrædi; voru landi veit forsvar, blída rósemd, blessan auds, og braud lífsins orda, blída rósemd, blessan auds, og braud lífsins orda.

---

# Vers til heilags Anda.

## 1. Vers.

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

Ei fæ eg, sannleiks Andinn kjær! uppreiknad gjafir þín, ómetanlegar eru þær, öllum skilníngi mín, þú gefur hjartans hægd og kyrd, huggun og þolgjædi, kallar, uppkvsir, helgar hyrd, Herrans á jördinni, réttann kjærleika ríkkar þú, rætir Guds elsku, von og trú, arfleifdar pantur útvöldum, upptendrar bænrækni, sannfæring heimi setur um, synd, dóm og réttlætt, ver öllum sálar vandrædum; vegsemd þín eilíf sé.

## 2. Vers.

Lagid: Blídi, Gud! bænum þínum ek gleym.

Aftar þín, Andi Guds heilagi! sæta vín, send oss af hædinni, Drottins Jesú drepra

lind, og dropum Guds nádar, samanbyrl=ad svo med hind, ad sálirnar þjádar, lifni hradt, lofgjörd framberi, blídt og stadt, bæn=hressar veri, þansi gladt, í Drottins musteri, allann fögnud ebli þó, brúdhjón=anna brjósti mest, í brennheitum trygdum, brúd=hjónanna brjósti mest, í brennheitum trygdum.

3. Vers.

Lagid: Heidur og hæleit æra.

Kom þú, kærleiks Andi! kraptur Guds af hæd, oss í nád uppfyllandi, alla frid=heilsum gjæd, brúdhjóna beggja trygdir, blómgi þitt ástar=ljós, auk þeim allskonar dygdir, yndi, farsæld og hrós; kristninnar heims um hríng, haldtu vid, Gud! eining, viltum sért veg=lýsing.

4. Vers.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Fyrirheitinn fridar Andi, fullur nádar, sé med oss, brúdhjónanna brjóst helgandi, hánum ástar gefi koss, líkni þeim í lífsins standi, lidnum veiti sælu hnoss.

5. Vers.

Lagid: Heidrum vér Gud! af [illegible] og sál.

Hingad innbodin hýr og kjær, himneska

dúfan, kom þú nær, hreinsa vort géd, en helga sál, hrestu þánkana, styrktu mál, tendra bærn, von og trúar safn, trygdanna láttu ríkja dafn, eg þig grátbæni í Jesú nafn.

6. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Minni sál mjøg yndæll, megtugur ástar hýr, kalladur, kom þú sæll, kraptarins Andi skír! helga, stíd, hátt upplýs, hjørtu vor allra senn, føgnud, heill, frid og prís, festu vid brúdhjónin.



## Fyrir Brúdar sæng.

1. Vers.

Lagid: Á einn Gud vil eg trúa.

Heppinn sé yckar hagur, heidurleg brúdhjón! alla stund, Fødursins geisli fagur, færi yckur ljós í vøku og blund, qvída gjørvallann kéfji, Hjør-yndid fylli mest, vødunum ástar vefji, værdar svo njótid best, fridarins hjørt ábreida, brotin að yckar sæng, vermi lífs gledi greida, Guds undir blídar væng.

## 2. Vers.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Sofid nú sætt í frid, signud brúdhjónin! Guds hlífdar vængi vid, vendist hug=sjónin, hýr, heilskygn ad, hædum Israels fjalla, brjóst Jesú blód=døggvad, bjódi' yckur af þeim stad, andar værd alla.

## 3. Vers.

Lagid: Blídi Gud! barnskap þinum ei gleym.

Hann sem bjó, hjónabands vil=føgnud, værd og ró, veiti yckur Drottinn Gud! á brjóst=um andar brúdgumans, blundid í nádum, lýknar hjarta ljósid hans, lýsi yckur bádum; eining þrenn, eining vid hressi, fadmløg tvenn, fadmur hans blessi, vin=kossinn, vidminnist þessi, sæng, ábreida, svæfli med, veri Drott=ins voldug hønd, en vørn engla tjaldid, veri Drottins voldug hønd, en vørn engla tjaldid.

## 4. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Ved yckarn brúdhjón hýr, bevari Drottinn hér, fadmur hans fadmi dýr, fadmløg yckar ad sér, blundid svo blídt og rótt, beggja sál

medlætist, gefi yckur góda nótt, Gud fyrir Jesúm Krist!

5. Vers.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi.

Einn Gud, sem yckar tryggdum, eina sæng búa réd, vid allskyns voda og styggdum, verndi yckar hjóna-bed! blessad í tryggda-bandi, blundid nú vært og rótt, fráskilin fridar grandi, Fadir, Sonur og Andi, gefi yckur góda nótt!



# Valet frá Brúdkáupum.

1. Vers.

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

Gudi sé dýrd sem gaf oss enn, gód býti samvista, kjætti vorn hug vid kjørin tvenn, kjærleiks og veitínga; þyggi nú hjartans þackir mín, þýdir bods-rádendur, eins fyrir dygdar atvik sín, allir nærverendur; ydur farsældar óskum med, eg í vinsemi þannig qved: gledji ydur alla, gódir menn, Gud fyrir Jesúm Krist! skipi svo dvøl og skilnadinn, skeid lífsins bevarist, inn til þess hittumst allir senn, i eilífri dýrdar vist.

2. Vers.

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Sá Gud oss safna rédi, saman til funda hér í stad, holla svo hrepptum gledi, hefur og settann vorn skilnad, verduga virding hljóti! veglegann selskapinn, qved eg af kjærleiks hóti, kyssi Gud brúdhjónin, hans kraptar hæsti fridur, helgasta nád og vørn, margfaldist yfir ydur, elskuleg Drottins børn.

---

## Eptirfylgjandi vers tilheyra Erfisdrykkjunni.

---

## Fyrir minníngarskálum Foreldra.

1. Vers.

Lagid: Þér Drottinn þacka eg.

Fadir minn sigursæll, sofdu nú blessadur! þér laungum hélt í indæll, þíns Jesú blódfadmur, því var hann þinni sálu mjúkt í daudanum mjúkastur.

2. Eja! þitt ángur hvarf, ævinnar [illegible] forprís, þína dygd eg í arf, andæfum fram-

ar lýs, flýti nú Frelsarinn góður, okkar samfundum í Paradís.

## 2. Vers.

Lagið: Tvi! Tvi! mig aumann mann.

O Faðir minn! Faðir minn! eg felli tár, af því nú, að eg veit þú, ert orðinn nár, sem gladdir fyrr mín úngdóms ár, og elskaðir mig í tryggðum klár, hins mér dauða svíður sár, svíður sár.

2. Dæmi nú, þá dygð og trú, mér Drottinn kær, í arf sem hjá, þér sjálfur sá, var sl-frábær, þar til ángurs undin grær, og eg þig hitti, Faðir kær! hægri Jesú hendi nær, hendi nær.

## 3. Vers.

Lagið: Hér Drottinn þakka eg.

Sofðu nú sorgum fjær, sæl í Guðs akur mold, mín hjartans móðir kær! mun þitt forklárað hold, síðar um eilífð alla, blessað lifendra byggja fold.

2. Laung er nú lífsins eymd, lángt þér burthorfin frá, en sálin glödd og geymd, Guðs friðar tróni hjá. Ó! að eg fengi hið fyrsta, þig í fögnuði heim að sjá.

### 4. Vers.

Lagid: Upp, upp, min sál.

Þó hér um sinn, kross bleiti kinn, kjætir þad hyggju slódir, eg kém til þín, þú ei til mín, þýdasta hjartans módir! æ ad stund sú, nálægdist nú, nædi eg takmarkinu, Jesú þín trygd, skýni mér skygd, skjærast í andlátinu.

### 5. Vers.

Lagid: Gudi lof skal önd mín inna.

Gud sem fyrr gaf, og svifti, greidi nú högum lagfæríng, vid mig í miskun skipti, munadarlausann vesælíng; huggun, frid, heill og nádir, hérvistar alla tíd, forsvar og fridar dádir, færi mér nád hans blíd, veika trú virdist næra, vidhressi þjáda lund, sálar-heill sendi væra, sídan á dauda stund.

---

## Fyrir minníngarskálum Barna.

### 1. Vers.

Lagid: Heidur og háleit æra.

Gud sem mig ádur gjæddir, gódu lífs afqvæmi, kyrtli réttlætis klæddir, qvittad frá

eptirlæti, eingin mæda skadvænlig, hrindi þér frá Guds ágjæti, gacktu beinann lucku = stig.

12. Æra þín og audnu vegir, upprenn= andi lífs um ból, rekist, sem af röckri megi, renna björt í heidi sól, Guds ad vilja, þó sem þreyir, þitt sé temprad gjæfu hjól.

13. Menta = ríkid lucku ljósa, leggi þér og einnig til, heidur þinn svo kunni kjósa, qvenn = prýdinnar hátta = skil, marg = vinsæld= ir manna og drósa, mjúkast falli þér í vil.

14. Öllu framar á þér skíni, alls = kyns dygda fagurt blóm, þig um æfi þar med krýni, Þrenníng sælum mannords = róm, Gud af sætu gledinnar víni, gefi þér svölun ept= ir dóm.

15. Lífsins þegar forløg falla, framm á dimma grafar = braut, Drottins Jesú dreyr= inn, alla, daudans þína mýki þraut, svo þú megir höfdi halla, hans í fridar eilíft skaut.

16. Æru, kjør og ástmenn þína, önd og líf um tída = flód, í forsjón taki Fadir= inn sína, fyrir Jesú Kristí blód; qvedur þig svo ljóda = lína: lifdu blessud, Syst= ir gód.

# Sumar Vísur,
## Til Ch. J. D.

Lagid: Kjær Jesú Kristi.

Gott ár í Gudi, góda Sumar-tíd, ferst-um føgnudi, frjófgada eg býd, þér af huga hreinum, hjarta Systir mín, mesta bót á meinum, midlist høgum þín, sem nú gróa vídt um vøll, vid il-fróa sædin øll, audna þróist þín gjørvøll, af þeim er hærstur skín.

2. Allt endurlifni, áform þitt til góds, bug-drjúgar þrifni, dygdir hyggju sjóds, saungum fádfuglanna, samstemmi þín raust, Drottinn dýrdar ranna, ad dýrka mædu-laust. Hjartans yndi hann sé þitt, hug þinn bindi fast vid sitt, ástarlyndi kala qvitt, skapti, von og traust.

3. J lund fridar ljósum, Lausnarans undir hønd, réttlætis rósum, rík-blómgist þín ønd, føgur lysti-lilja, lifandi Guds á hæd. Verk þín, ord og vilja, veiti sér ná-stæd, í æru-neytri bád og bygd, dreyra heitust Jesú trygd, hans þér sveitinn sesi stygd, og svali hjartans æd.

4. Hvad hug þinn grætir, hjadni og dofni allt, hvad hjartad kætir, heppnist þér

ávallt, fagni farsæld þinni, fuglar, dýr og sáð, blædi blessaninni, bædi vøtn og láð, heilsa, fridur, hægd óspør, haldist vidur øll þín kjør, vinsæld ydug fadmi fjør, og flenti mann = ords dád.

5. Alls góds þér unni, almáttugur Gud, Jesú blód = brunni, blessudum ádøggvud, lifdu frid umflotin, fróma Systir mín, grædarans gjædsku notin, geisli á høgum þín, allar stundir æfi = tóms, eptir mundir lausnar dóms, sittu ad lundi sælu blóms, þar Sumarid eilíft skín.



# Utfarar Minning, Ingveldar Sølvadóttur, 1735.

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Svo lida sorgar mundir, sinna lífs nauda kénnir hver, medan Krists merkjum undir, mæddann líkama daudans ber; forløg ad erfdum falla, fædist í heiminn jód, gledinnar býdur galla, grátur, þess fyrsta hljód, ótignum, edalbornum, aud er vøk sama kífs, fer ad skilmála fornum, fæding og endir lífs.

9. Fékk síðan fáar stundir, framm=dreg=ið, þar til veraldar ljós, hennar gékk aug=um undir, útvalin Jesú dygða=rós, hné fyrir hægann dauða, hans í miskunar faðm, øllu svipt ángri nauða, anir við lífsins baðm, vitnisburð hæfann hefur, hlotið í Paradís, minning þar glæsta géfur, Guð hennar dygða prís.

10. Í lifandi lífsins blóma, lofsæl um aldir, fegurð skín, heiðbjørtum himins=ljóma, hreinast inndreckur gleðinnar vín, útvaldra kjørin kransi, krónu réttlætis ber, Drottins lofgjørðar dansi, dreifir af vørum sér, øll hennar dýrð og æra, ódauðleg þar af stár, að Skaparans auglit skjæra, hún skoðar um eilíf ár.

11. Vér sem í von yndælli, við=hjørum lífsins tára=slóð, samføgnum hennar sælli, sigurvinníng fyrir lambsins blóð; enn þó kífs undir=rótin, oss beiski forløgin, ríkust er rauna=bótin, rétt að vér allir senn, ør=uggir, heilum huga, heitum á Jesú brjóst, eins mættum yfirbuga, allrar heims mæðu þjóst.

12. Jesú þín bønd og benjar, blóðugur sveiti og dauða=stríð, mýki svo Adams menjar, með oss á þeirri hørðu tíð, er

lífsins andar værir, uppþorna líkt sem hjóm, og daudans sverd útsærir, sálina fyrir þinn dóm, ad vér þá innsveipadir, allri þíns hjarta = trygd, heimleidumst hugar gladir, hédan í sælu bygd!



# Utfarar Minning, Sýslumanns Spendrup,

sem deydi nóttina milli þess 5ta og 6ta Octóbr. 1735, en grafinn ad Reyninessstadar Kl. Kyrkju, þann 18da sama mánadar.

---

Lagid: Syrgjum ecki sálaga brædur.

Hví qvøldar? hvad byrgir ljósid? hver deif-ir gledinnar hrósid? hví þyljast harmar af túngum? hvad veldur andvørpum þúngum?

2. Hver kallar? lífid. Hvad? daudann. Hvar til? hann gjørir sess audann. Hvern? þann er frægur var fundinn. Fyrir hvad? komin er stundin.

3. Hvad rómar kallandi kraptur? komid þér blessadir aptur, fángadir, fyrr dauda mæddir, frelsadir, lífinu gjæddir.

4. Hverjum er kjørin sú qvedja? kappa Guds útvøldum: bedja, sorganna, sem ei gat haldid, en sæll Jesú blód=fadmur valdid.

5. Ur køsum ángurs og dauda, óværdar, sjúkdóms og nauda, í frid og fagnadar mæti, frelsi, líf, heidur, ágjæti.

6. Grein mér þann Guds vin med nafni, sem glæstann í Dygdanna safni. Þú létst fyrir skømmu hér skína, og skjótt bída formyrkvan sína.

7. Ritad á bók lífsins hjarta, blessad hans heiti mun skarta: Jens Matzson Edla=gøfugur, ad auknafni Spendrup sálugur.

8. Dýr, valinn, dyggur Høfdíngi, Dómari í Heggvaness Þíngi, ættstór og einka vel metinn, ádur á Jótlandi gétinn.

9. Hans fedraheiti, nafnbætur, hús, arfa, qvinnur og dætur, alls veit eg eckért ad reikna, annad mig gyrnir ad teikna.

10. Sem er hans eilífur sómi, sá, ad Guds ástvinur frómi, fæddur af fødurnum ljósa, fedranna dygdum nam hrósa.

11. Réttsýnn og røggsamur talinn, rád=hollur, einnig útvalinn, laganna grundvøll ad leggja, lýdum til nytsemda tveggja.

12. Vegsemdar vegu rekjandi, vildasta nam hér á landi, réttarins fullmakt að færa, framgékk svo höfdíngjans æra.

13. Stjórnsemi veglega valdið, víst gat og lögum upphaldið, mátti svo málin sem krafði, manngreinar álit ei hafði.

14. Farsæll og forsjónar-tamur, friðgjarn, en vandlætissamur, ódygðar-háttum að hnekkja, hugði víst eingann að blekkja.

15. Vøl eckna bætti með prýði, brjóstgóður þurfandi lýði, vinsælda vann sér ágjætið, val manna kallaður ætíð.

16. Guðræknis hlutskiptið hærsta, honum bjó vyrðíngu stærsta, lyst hafði í lögmáli Drottins, lít eg það gløggvasta vott hins.

17. Guðs kyrkju gjarnan vitjaði, Guðs orð af hjarta stundaði, Guðs typtun géðprúður sætti, Guðs dýrkun brjóstinu rætti.

18. Líf, heiður, ønd, eign, umsorgun, ástvini, qvøld hvert og morgun, hús, qvinnu, hjú, børn, sem þáði, hann Guði befala náði.

19. Frægastar framleiddi stundir, Frelsarans blóð-merkjum undir, velbyggður von og þolgjæði, vannst honum Drottins hjálpræði.

20. Utrann svo æfinnar hlaupid, inn til þess dygda verdkaupid, sætt fann á Simeons stundu, sælli vid Jesú blód-undu.

21. Fimmtýgi og fimm ár í heimi, fjádur af dygdanna seimi, lífs þreydi, lifir margfaldur, lofsællrar minníngar aldur.

22. Vind-bil og vatnsstrauma hreina, vagnleidir Helíæ beina, samt efnid helgunar salla, af sorgum lét Gud hann útkalla.

23. Vøtn daudans vøk honum gjørdu, vatns brunna á lifendra jørdu, lík-vatna lidinn frá bóli, lífdrykkja vøtn af Guds stóli.

24. Ur myrkrum leiddist í ljósid, lífs naud, í sælunnar hrósid, hryggdum, í himnaeskann føgnud, hans er því gledin al-møgnud.

25. Skínandi skrúda réttlætis, skrýddur í vist fridar sætis, pálmavid hefur í høndum, heilagra samfagnar øndum.

26. Fridurstu fadmløgum vafinn, Frelsarans Jesú til hafinn, arfskiptis eilífra gjæda, øll er hans burthorfin mæda.

27. Fagni því himin og haudur, honum er lokinn sá audur, sem rid kann ei granda né rotti, ritníngin tel eg þad votti.

28. Fagnid hans ástvinir allir, sem erud

í glebinnar hallir, kjørnir ad koma á hans fundinn, qveinid ei, nálæg er stundin.

29. Senn kémur Drottinn ad sýna, hvad Sonarins bænir og pína, hlífir, þá heimur ei líknar, en holdid af daudanum bliknar.

30. Vakid til vegferdar hradir, verid æ syrgjandi gladir, dregur ad hjálprædis degi, dómarinn bidleikar eigi.

31. Drottinn sem lífgar og deydir, úr djúpinu sídan upp leidir, veri yckar athvarf og yndi, øll vid sín fyrirheit bindi.

32. Láti sitt lidsinni mesta, líf og sál aldreigi bresta, þar til í daudanum dofnid, og Drottins á ørmunum sofnid.

33. Alfrí af allskonar mædum, uppskérid føgnud á hædum, í sambúd ástvina þrádra, óqvídinn skilnada brádra.

34. Jesús vort høfud og hyrdir, sem hug=mædda sorgunum fyrdir, allra vor meinsemdir mýki, og mædu til rósemdar víki.

35. Veiti oss í voninni ad þreya, vidbúnum sídan ad deya, þar, þegar, þannig á ládi, sem þægt er hans alvísa rádi.

---

# Utfarar Minning, Hallgríms Magnússonar,

sem deydi hann 11ta Janúarii 1737, á 25ta aldurs ári.

Lagid: Gudi lof skal önd mín inna.

O Gud í eilífdinni! alvís, heilagur, sæll og trúr, þú sem af elsku þinni, þrá-leysir holdsins böndum úr, sálirnar sorgum beigdar, sem undir nádinni, ektadir ádur leygdar, í þínum víngardi, fagrann opnandi fadminn, fyrirheitanna heim, vid lífsins bjarta badminn, í byggdar sællri heim.

2. Þitt vald og dýra dóma, dásemdar verk og æru skal, mín önd og munnur róma, medan eg byggi tára-dal, enn þó ömunar-slagur, adgusti þaunkunum, og sorgar dymmu dagur, dreysist ad högunum, vid huggun þá eg þreyi, þar kémur loksins ad, mitt ángur mein og tregi, mér verdur umbunad.

3. Þessarar tæpu tídar, twöfaldleg hrygd og mótlæting, sér hefur kjörin sídar, sjö-faldrar dýrdar ávinníng, reiknast ei svoddan sælu, sannlega verdug þó, sem eptir súta kjælu, sínum Gud Drottinn bjó, hann fögn-

ud augad opid, einkis manns litid feck, hef-ur síst heyrn inndropid, hugannm fjær þad géck.

4. Afþerrar ángurs tárin, útvaldra kinn-um, Drottins hønd, rakur þó rotni nárinn, réttlætis hjúpur skýlir ønd, beinin í fridi blífa, bevørud utan meins, hár þau af høfdi drífa, hefur Gud talid eins, daudann ád sætum svefni, sjálfur þeim gjørdi hann, eckért hørmúngar efni, øndina snerta kann.

5. Hver er sá grundad géti, Guds barna føgnud annars heims, medan í hrygdar hreti, hjarir veraldar innan geyms? sjúkdómur einginn sýkir, sorg øll er horfin þá, himins-ins ljóma líkir, lepptra þeir Englum hjá, Guds Sonar hægri handar, heiløg útvalin børu, léttfærir eins og andar, eingin sjest gledi þørfn.

6. Réttlætis krýndir krónu, klædin hvít-fágud bera þeir, glansinn af Guds ásjónu, gledur þá allri sælu meir, bjartir í høndum halda, herlegri Pálma-grein, Lausnarans løf margfalda, lífs vøtnin drecka hein, sú lind um eilífd aptur, af þeirra lífi gár, hjætir innbyrdis kraptur, kjærleikans furdu hár.

7. Þó al-heims eptirlæti, allar hans tíd-ir fram til dóms, hér á einn bladist gjæti,

hærstar ad gyldi maktar blóms, skár jafnast skugginn vidur, skínandi í heidi sól, en Drott-ins dýrdar fridur, daudleikans gjæfu hjól; hærst er líf, heill og yndi, himneskann Gud ad sjá, leikur því allt í lyndi, Loffaungvurun-um hjá.

8. Í þennann ódvínandi, allra trúadra vil-fögnud, dró hér af daudans landi, dýrd-arsamlegur himna Gud, minn æru-merkann bródur, mædunnar stytti von, heitinn var hjarta-gódur, Hallgrímur Magnússon, æsku-blóms árin fjögur, yfir tuttugu bar, hans þegar ferdin fögur, féll í Guds hend-urnar.

9. Líknar-vild Herrans ljósa, lífs allir þacka skyldum vær, hans verkum einnig hrósa, heyrdum og sjedum fjær og nær, gullvægann ávöxt géfur, Guds dýrdar leitun öll, þann lysting hennar hefur, hendir ei glæpa föll, því vil eg sælann segja, sérhvern er hana jók, fyrr lífs enn fór ad deya, og fridarins höfn svo tók.

10. Maklega má eg hrósa, míns vinar látins þeirri dygd, skírar enn skjærust rósa, skein hans líf hér í æru og trygd, vidfeld-inn, vidmóts gódur, vinsæll og fridar-gjarn,

siþeckur sinni móður, sem dygdugt einka barn, hýr=máll, í hófi kátur, hneigður til menta víst, guðrækinn, lítilátur, last=mælum eyrði sízt.

11. Tryggorður, trúnað festum, til ó=dugnaðar hvergi brá, ei var tál auðnu=hrest=um, eður lausmælgi fundin hjá; einlægur út af hjarta, ásthuguII vinum þó, siðgjæðis blómann bjarta, bar víst, en ecki dró, þroskaði dygðum þanninn, þægur sitt únga líf, framleiddi fjørs um ranninn, fast við þá søgn eg blíf.

12. Utan mótlætis einginn, í gégnum dauðans myrkur er, Guðs dýrðar víst inn=geinginn, gjør vitnar Páluß þetta mér. Allt hold sem fatið fyrnist, forløgin valda því, sitt efni sérhvað gyrnist, sig loksins myndað í, líka sem reir og rúða, rjóð liljan féll og blá, elli=skérf æskan prúða, einneg=inn þyggja má.

13. Í lífsins besta blómi, beyskjunnar kaleik þessi minn, ætt=bróðir einka frómi, á=skeinktann þáði líka sinn, vikurnar vel svo tíu, við dauðans fætur lá, inn til með ári nýu, upprétttann þeim í frá, krossins hjúp Guð afklæddi, kjær í hans faðmi dó, helga braut heim svo þræddi, héðan með Stephanó.

14. Þrekádur þvíngun meina, þádi tvísvar á bana=sæng, hold og blód Jesú hreina, hann med øblugum trúar væng, allann féck ad sér vafinn, ei fannst á nockurn hátt, þolgjædis kraptur kafinn, krossins þó drýgdi mátt, heilagar höf upp laungum, hendur, og lausnar bad, féllu tár vørm af vaungum, vidstaddur sá eg þad.

15. Sorgar þó sældi regni, særdur í daudans bøndum einn, freistar ei frekar megni, Frelsarinn Jesús gjædsku hreinn, sampíniſt eymdum sinna, sætarsta mildin hans, metur forþénan minna, misgjørdir syndarans, kémur í krapti hreinum, qvedju nær þikir mál, hédan frá holdsins meinum, hjartans ørmæddri sál.

16. Eins hefur hann álitid, hér greindann vin og bródur sinn, mæddum gaf mál og vitid, midt undir sídurst andvørpin, leysdi svo lyktan hørmum, leisti hvad bundid var, sálina sér á ørmum, í sælu hús innbar, medal vor hvíldir hefur, hold í Guds barmi reit, þar til hann þess útkrefur, þann dag er sjálfur veit.

17. Þackir, lof, heidur, þídast, þiggi nú Gud á himna trón, fyrir þad einka fridast,

frelsið er veitti sínum þjón; en eg syng: Avi bróðir! undir stríðs nótunum; aptur þó: Eja bróðir! yfir heim sigrinum, Guð sem þér gaf og ljenti, gjæðsku-hreinn, fyrr enn mér, sála þín hnossið hendti, hvert eg veit, en þú sjer.

18. Um þig dauð-moldar manninn, margir ber æru vitnið sitt, lystir mig líka þanninn, leingur enn skémur virða þitt, merkis mannkosta næmi; mikils þó hefðir ei, ráð ella ríkidæmi, rétt varstu forsjál mey, þíns Guðs, er þig elskaði, þægur af hjarta meir, mörgum þeim mig skundaði, meðan hér lifðum tveir.

19. Elsku mér ávallt sýndir, ófka dýr saungur þinn mér skín, nú eru tímar tíndir, tryggðar og æru sakna eg þín. Ei géfur moldin málið, mína sem kjætti lund, þá súpum sama skálið, forganna lífs á grund, mig annars meira gleður, munum við aptur sjást, kjör-heillum krýndir meður, kyssast í fegri ást.

20. Sofðu nú, sæli Bróðir! sæll í Guðs jörðu framm til dóms! þína marg-hressi móðir, myskunar-heitin Kristi róms; eins hennar egta-maka, ellinni hrjáðann mjög, traust að sér virðist taka, trúr Guð á allann veg, breiðandi beggja högum, blessaðar hendr

ur mót, inn til þess ad forløgum, øll hefst á meinum bót.

21. Sá Drottinn lífs og dauda, dýrstur var, er, og koma mun, sinna vitjandi sauda, sídurstu lífsins útfølun, veiti oss øllum væga, vid dýkid Jesú blóds, ástar mund høfdi hæga, hyrdi, sem módir jóds, klárir vid andar qvídann, qvellíngu, stun og sorg, ad hittumst allir sídan, í Drottins fridar borg.

---

# Utfarar Minníng,
# Høskuldar Jónssonar, 1737.

---

Lagid: Lít upp mín ljúfa ønd.

Allt hefur umbreytíng, ad skipun forlaga, sækir án tafar heims um hríng, hvad til síns uppruna.

2. Vøtnin sem falla frá, flædandi sjáfar hil, í djúpid hafsins aptur gá, uppsprettu þadan til.

3. Skúrin sem draup í dag, dregur sig loptid í, samgróin ský med svoddan slag, senn gefa døgg á ný.

4. Eins hvad á jørdu ór, aptur til jardar snýr, eykur, sád, runnar, aldin plógs, ormar og gjørvøll dýr.

5. Myndud af jardar mold, manneskjan er til sanns, því verdur lidið hennar hold, ad hníga til upprunans.

6. Nær sem þad kall áknýr: komid þér manna børn; trúudum stundin trega rír, tæmir sú alla þørfn.

7. Dýrmætann andláts dúr, Drottinn Gud metur þeim, uppheidir sælu skin af skúr, skaprauna fyrri í heim.

8. Hverfa þeir hédan til, heilags upprunans síns, settir vid nægann svala-hyl, sætarsta gledi výns.

9. Hætt yfir heljar djúp, heimleiddir sorgum frá, réttlætis Jesú raudum hjúp, reifadir sigri ná.

10. Byggja sitt edlis ból, beinin til grafar færd, andinn veglegur yfir sól, í Gudi tekur værd.

11. Sínum því saudum bjó, sjálfur þann gledi hag, allir þeir findu eilífa ró, eptir sinn mædu dag.

12. Og sem hér yfirgár, ímyndan, heyrn og sjón, Drottins útvaldra heidur hár, hæst fyrir lambsins trón.

13. Svo mikil sorgum þá, sælu gnótt eptir ser, þeir aldrei minnast þadann í frá, þrauta, sem báru hér.

14. Sofnadur sálar hress, sætann vid andláts dúr, hlutskiptis notid hefur þess, Herrans ástvinur trúr.

15. Vor bródir alinn einn, undir veraldar ljóss, elliprúdur og æruhreinn, eptir sig lagdi hróss.

16. Merkis manndygda sín, medan oss þreydi nær, hans minníng sæl á himnum skín, hún skal oss einninn kjær.

17. Blómgast hans beinin köld, bygd andans sællri mót, þar var sá madur einn í öld, er elskadi Gud af rót.

18. Hátignum einatt hans, helgidóm kepptist ad, gódrar sidvenju gaf ei stans, gudrækinn saung og bad.

19. Hollur sitt hús án vífs, hann í Guds dýrkan jók, þjáníngar byrdi þessa lífs, þolugur jafnan tók.

20. Fannst honum frid af allt, fridsemin hjartans þeck, eins og þad ljós er logar spakt, lundhægur áfram géck

21. Skilvísur skiptum í, skap-ar á gódvildir, ágjarnar mann-ords æru því, afladi frómur sér.

22. Fyrir þá fridar ást, frekast er æfdi þó, jafníngjar hans nú færri fást, fyrnar so kyrrd og ró.

23. Med greindum sóma sid, sín dægur gjørvøll ól, inn til vid hægast andlátid, øndina Gudi fól.

24. Sem fyrr um segir ljóst, settlyndis dagfar hans, eins hér ad lyktum inndæll bjóst, afgángur dygda manns.

25. Vid heilsu vana þrótt, veikann þó mjøg um stund, sig bar á fótum, sídast rótt, sofnadi nætur=blund.

26. Ad morgni máttar hress, meir venju qvadst, á ný, høfgadi lítt, en sælu sess, sálin tók ørt í því.

27. Líka sem annad ljós, lidinn af þess=um heim, vid Sarons unir rauda rós, ríkur af dýrdar seim.

28. Hann Drottins heidur jók, hann Drottins ok vel bar, hann Drottins fadmur hédan tók, hann Drottni lifir þar.

29. Lík hans er lagt í mold, líflegast ønd=in skín, sællrar upprisu heilagt hold, harma=laust bídur sín.

30. Hans dygda minníng mæt, med hon=um ecki þó, heidvyrdum skartar hún ágjæt, heiløgum fegur þó.

31. Far vel, þú fróma sál! friðinn sem æfðir hér, friðhelg við Jesú friðar mál, friðar von sáðir þér.

32. Heimsins ófriði fjær, friður þinn blómgist nú, eins og það lauf á lundi grær, lyktast ei frjófgun sú.

33. Afleistur allri pín, eg megi fagna þér, holdsins þá eymdar hagur dvín, hæstur Guð veiti mér.

34. Andlátið eina þitt, ó Jesú! Maríu Son, hel-dofið næri hjartað mitt, himneskrar sælu von.

35. Og sem það fyrrist önd, afþerruð gjöri klár, myskunar þinnar mjúkust hönd, mín öll af kinnum tár.

36. Qvittum við rauna ról, renna lát sálar hag, eilífs réttlætis eilíf sól, eilífann gleði dag.



# Utfarar Minning,

Systranna

## Guðrúnar og Guðnýar, Ingimundar dætra,

sem burtköllaðust á Sumardegi ársins 1738.

---

Lagið: O Drottinn allsvaldandi.

Sú tekur senn að hæcka, sár harma-klögun

Davíðs ein, heilagir fyrnum fæcka, fjølga trúlyndra dofin bein, rósir lítt reynrnum falla, ramir slíkt má vel kalla, dauðinn ríkt, dupt-inn þekur alla.

2. Vinsældir, vitsku, trygðir, vænleik og hreysti líkamans, mannvit, auð, merkar dygðir, metur einn skugga bræðin hans, þá svo ber, høgum hagi, holdið sér, moldin dragi, en sæld óþver, sálunum fornægi.

3. Skilmálinn er svo skaptur, skepnu mann-legri um allann heim, einginn lífs anda krapt-ur, abl hefur til að raska þeim, rómur skár, reiðar-slaga, rís upp hár, dóms forlaga, þú skalt nár, þinna saddur daga.

4. Hnossið þó annars hljóta, hverjir sem elska Jesúm Krist, þegar lífs árin þrjóta, þeim er tilbúin dýrðar vist, geymdir við, gráti og trega, gjæddir frið, alla vega, hjá skaparans hlið, skína þeir eilíflega.

5. Mótlætið eckl minnast, meðlætið hag-ur skín svo hreinn, þúsund ár þessum finnast, hvílík sem væri dagur einn, hátt við stól, Herrans dansa, heitri sól, fegur glansa, ei-líft hól, aldrei má þeim stansa.

6. Þeir sem dags þúngann sveittir, þol-inmóðlega báru hér, síð og ár samt óþreytt-

ir, sáðverkin dygða tømdu sér, føgnuð á, friðarins landi, ferskum ná, uppskérandi, verðlaun há, í vegsemð óðvínandi.

7. Lifandi lærðu að deya, lífið í dauða hreppttu því, þeir gjørðu lífs að þreya, það líf nú sjálfir gleðjast í, røsin lífs, líf þeim greiddi, ljós einhlífs, vegar reiddi, hrós án kífs, hafa þeir slíkt hann beiddi.

8. Guðs barna gleði slíka, guðhræddar Systur bygðar trú, Guðrún og Guðný líka, Guðs hafa báðar þegið nú, sælu nær, sál ei grætur, sóktu þær, harma-bætur, ærlegar tvær, Ingimundar dætur.

9. Önnur í ekkju standi, elskhugum tveimur skilinn frá; hin geymd í hjónabandi, holdsins útfarar degi á, skjærust kjør, Kristí brúðar, kjær óspør, giftu liðar, værast fjør, vistudu elliprúðar.

10. Missirið mundi sama, mælíngar lífsins daga jók, báðum fyllíngu frama, friður Guð sem þær að sér tók, hepti flóð, harma nauða, hold og blóð, Jesú rauða, synda móð, svipti þær í dauða.

11. Að lyst og lífsins báðum, líkar sem skyldar voru þær, blessun aðbundi báðum, breytni þeirra var Guði kjær, ríka trygð,

raufn haglega, rædu blygd, andar trega, og bestu dygd, báru þær marga vega.

12. Mentanir hugvits hæfar, hagsæld og mannord æru-neytt, ráds og minnis gjør gnæfar, gáfur þeim hafdi Drottinn veitt, hlýdir grein happs tilleggja, hittist ein, rótin beggja, kosta hrein, kyn-stafanna tveggja.

13. Af Gudi fegurst fæddar, frædar af Gudi sønnum best, Guds Anda krapti gjæddar, gudlegri dýrkan sinntu mest, Gud um nád, gjarnan bádu, Guds hjálpræd, jafnan þáðu, gudleg sád, Guds kornhløðu nádu.

14. Sæll er nú sigur fenginn, sæmd, hagur, yndi, líf og prís, gladværd, en grátur enginn, Guds liljum þeim í Paradís; vidur tréd, lífs þar ljóma, lada géd, øllum sóma, reifdar med, réttlætisins blóma.

15. Hagur kífs hepti dægur, hér í jardneskum tára-dal, dagur lífs þeim er þægur, þar í himneskum gledisal, ást vid Krist, ad margfalda, eptir vist, heimsins kalda, þróar lyst, þeirra um aldir alda.

16. Heillir svo hábléssadar, hólpinna þar í dýrdinni, sér kressja samfagnadar, syrgendra hér á jørdunni, stund ad ber, skygdum hafnar, stirjøld hver, ángur kafnar, ljúfum sér, loks þá Gud heimsafnar.

17. Þeir sem í Drottni þreya, þreyandi í Drottni finna ró, í Drottni sér þá deya, deyandi lifa Gudi þó, í ljóssins heim, líf án dauda, lénar þeim, hyrdir sauda, svipt'ir eym, sorgar, hels og nauda.

18. Þá eru þegin sælli, þekking, líf, heilsa, gyrnd og mátt, ásjónu Guds yndælli, yfirgeislandi furdu spakt, skulu þar, andir una, útvaldar, sút ei muna, vellystar, vøtnin ad þeim bruna.

19. Allt hvad til ama neydir, allann veg burtu rýmt er þá, allt hvad manns yndi beidir, aldrei kann veikjast þadan í frá, eilíf nægd, Guds húss gjæda, géfur þægd, lof ad ræda, útaf hægd, hverra lífsins æda.

20. O! ad vér settum finni, svoddan fagnadar víst ad ná, æ ad vor ønd hún kynni, eilífann Gud sem fyrst ad sjá, upprunans, í réttlæti, og vid hans tignar sæti, magna dans, mestu sigur kjæti.

21. Jesús sem dóst og deyddir, daudann fyrir þitt maktar horn, þar med í ljós framleiddir, lífid og ódaudleikann vorn, veit oss hér, værd ad þreya, vel sem ber, sídan deya, líka þér, lof um aldir segja.

# Utfarar Minning,

Módir Skáldsins

## Þorgérdar Eyólfsdóttur.

Lagid: Kjær Jesú Kristi.

Sæll Engla sómi, sálar heidur manns, lífs dýr og ljómi, lynd ódaudleikans, þú sem þína taldir, þinni dýrd er skein, heimsins ádur aldir, upptøk høfdu nein, mildar sídan mundir ófst, mann og fríða qvinnu skópst, beggja þídar høgum hófst, heillir utan mein.

2. Forvitsku frægdir, fagurt heimkynni, hverskonar hægdir, og heilagt sjálfrædi, skjærann skilníngs anda, sképnu, ráð og vald, lystug gjædin landa, sem lífsins maktar-hald, gaf þín fróma gjædskan þeim, gjørdi róma bádum tveim, bods hid gróma brot í heim, bída mundi gjald.

3. Alls edlis høfund, unntu þau svo ríkt, ad andskotans øfund, ecki þoldi slíkt, rignd-ur reidi djúpi, rendi svika bønd, skreid í høggorms hjúpi, helvítsk flærdar ønd, manninn veiddi véla hind, vann, og sneiddi Guds ímynd, hann innleiddi sér med synd, sálar eilíf grønd.

4. Beist lagabrotin, báru nidjum gjøld; hér út af hlotin, heims er mædan føld, ør-byrgd, húngur, ótti, ømun, qvídi, tár, sorg, armæda, sóttir, sídast daudinn blár, þreyng-ist hold í heims óværd, hnígur mold, um sídir tærd, undir foldu sveipud, særd, sedur orma nár.

5. Nístur neyd stràngri, nakinn fædist mann, ynnidum og ángri, yfirklædist hann, saddur sorgar braudi, svølun tára hlaut, hafnar heill og audi, heilsan þegar laut, snaudum otur snakar blygd, snýr ad lotum vina trygd, frestar notum fágud dygd, færri mýkja þraut.

6. Byr lífs og blóma, bregdur þannimn skjótt, líka sem ljóma, leidi dags ad nótt, þad sem føgnud færdi, fyrr á æsku-tíd, burt vid aldur bærdi, bitur mótgángs hríd, lád sem hafid læsir kríng, líf er vafid um-breytíng, heitum grafid harma-stíng, hremm-ist út um síd.

7. Ad ýmsir tregar, uppá falli þeim, dád-ir daglegar, sem drýgdu þó í heim, vottar vísdóms andi, var þad fyrir spád, ferst á fridar landi, feingist hvíld ei nád, utan ..n þreingist þjód, þrautir megnar lynd-

is góð, Krists um dregna krossins slóð, kraminn, hrygg og þjáð.

8. Hörmúngar-hæfi, harla mæðurikt, efra hlut æfi, undirlagði slíkt, minnar kjæru Móður, maktar höndin æðst, frek við tára fóður, fékk þó dygð ei mæðst, þolgóð sínar þrautir bar, þegar pínan holdið skar, og blóðug lína lífs stundar, lá sem helju nærst.

9. Særð sorgar eymi, sæmdahrein og klár, hér var í heimi, hrygð um þréttán ár, knúði kross óvægur, klöckann harma saung, risin rauna dægur, rekja þókti laung, heit við stundi hjartans æð, hrönnum dundu tár hagstæð, gyrntist funda Guðs á hæð, gjeð úr eymda þraung.

10. Andvarpsins ydju, æ því meira jók, sem sorgar-viðju, særing herða tók, ört að fimtugs aldri, æfi-glasið rann, hún þá hérvist kaldri, hætt að þreyngja fann, Herrans Kristi hold og blóð, hennar tvistann gladdi móð, lausnar-þyrsta lindin góð, lífs þá hressa vann.

11. Fám dögum fjærri, frí við harma grönd, vist Engla værri, viðtók hennar önd, eptir hrakning hlotinn, hefur eilíft skjól, fögnuð lífs umflotinn, fyrir lambsins stól; í sor-

um blundi hvílir hold, heilagt undir vígdri mold, uns ad grundar feigins fold, fagurt eins og sól.

12. Hægann svefnhøfga, hlaut vid andar-slit, Guds mildin gøfga, gaf henni mál og vit, fram til þess ad færdist, frid af holdi sál, hjartad æ vid hrærdist, heiløg bænar mál, sem þá ljóma svipar af, sitt hid fróma líf upp gaf, dýrdar blóma hefur haf, hlotid utan tál.

13. Gladværdar-gjæti, géfur sálu mín, ferst fridar kjæti, fengin øndu þín. Hjartans milda Módir, mig sem gladdi best, og um æfi-slódir, untir jafnan hrest, hlinnti skárst ad høgum mín, hugul ástin, dygda þín, kunni ei þjást í qvøl og pín, kjærleiks hyllin mest.

14. Af elsku brunnum, andar-heit og klár, útveittust unnum, augna þinna tár, mér svo fengist fridur, frelsi og heill á jørd, blessadar bænir vidur, brunudu þau óspørd; þad er ótæpt þánki minn, þeirra fljóti krapturinn, mér til bóta sérhvert sinn, af sálar hærstum vørd.

15. Von væri eg mindi, vansalaust til þín, æ qvadst þér yndi, ad návistum mín, huggun holla tjádir, hjartad til mín skreyd,

með æru og ástar dáðir, allt í rauðann deyð; Guði hlýðug gladdir þjóð, gjæðsku þið, nær hagur stóð, auðveld, líðug, lyndis góð, lífs þá kénndir neyð.

16. Öll er nú unnin, þín eymd og sorgarbað, rjóðust upprunnin, rós í þyrna stað, qvíða kafið lyndi, qvelling, óp og vein, snúið allt í yndi, eckért bagar mein, svíða krömu sárin þín, sjást ei fremur, gjæðskan mín, gleymd er ömun, grand og pín, gleðjast marin bein.

17. Eckért ángræði, yfir meir þitt hold, sannheilagt sæði, sáð ert þú í mold, hugurinn heiðri saddur, harma fyllist bót, einn í stríði staddur, stofn af þinni rót, yfir leiðis þiljur þín, þessi breiðir laufin sín, tært útseiðir tára vín, og tregar á þitt mót.

18. Guð sem hér gladdi, gjæfu þinnar ljós, mjög síðan mæddi og myrkrum yfirjós, líf ángistar lúðast, leifði þó um síð, findi frelsið prúðast, frið og sælu tíð, anni minnar andar slóð, upp til þinnar, Móðir góð, Jésú vinni blessað blóð, bug á mótgángs hríð.

19. O! eg víst vona, veit eg trúi fast: gjæðskan Guðs Sonar, géfur það auðnast, svo sem fyr eg sá þig, sárveinandi hér, svo munt þú og sjá mig, samfagnandi þér, lambs-

ins tróni ljósum nær, lífs þar krónu skartíd grær, og Guds ásjónu gledi skjær, geislinn aldrei hver.

20. Þig þanninn qvedur, þakklætisins klár, minn, æru medur, munnur, géd og tár, sofdu sæl í Drottni! sveipud andar=værd, blöck þó beinin rotni, blómgast þau vid hrærd, þegar skín af ædri öld, öll svo dvína mædu gjöld, sem og hlína sædin köld, sast ylmandi nærd.

21. O Jesú! unni, allskyns hægdar þeim, af gjædsku grunni, sem glöddu þig í heim, hrellíng frá þeim hrindi, hjúkri sætt í neyd, eilíft sé þeim yndi, eptir værann deyd, dýrdarljósum degi á, Drottinn kjósi mér ad sjá, undir rósum alla þá, sem ör þíns hjarta sveid.

22. Lynd lífsins báda, sem lagadi skjær á kross, mind kíssins máda, meti værast oss, þegar högum hlotid, hjadnar audnu rúm, og ad augum flotid, ydar daudans húm, hradi málum blídast blód, badi sálum, eydi mód, ad forsjálum gledin gód, greidist med Jómfrúm.



# Utfarar Minning,

Födur Skáldsins

# Þórarins Þorlákssonar,

hver ed deydi þann 17da Maii 1739.

Lagid: Krid hýra, nú hid nýa.

Allri tára tíd í heimi, takmörk hefur dýrd- ar frægur Drottinn sett, sem ad skérdtum skúrar eymi, skýni sól í heidi nægu, hrygd er létt, hverjum þeim sem himininn kallar, heims og tíma kjörum frá, sveipast unun sælu hall- ar, sálir allar, Guds er fögnud gyrnast á.

2. Anaud lífs þó yfirgnæfi, eptirlætis tíd- ir manns í tára-dal, þad er stund en eing- in æfi, innan skamms er hafinn dans í himna sal, líkt sem vatna lídi straumur, leidarbeiut í hafsins flód, út svo rennur yndisnaumur, æfi-draumur, skipast önd um skiptin gód.

3. Einginn hagur, einginn sómi, eingin prýdi veitt er sú í veröldu nein, ad Herrans ótti hans fyrir dómi, heilög bænar ydja, trú og elska hrein, endalaust ei yfirgángi: audur, speki, virt og magt, allt í daudans fölnar fángi, fleyir rangi, dygd og æra drottna spakt.

4. Mannkostanna minníng hreina, má vel kalla líflegust líkhríngíng, umsal gott og blómgun beina, blóddøggvadrar Guds unnustu heims um hríng, dillar hug og drjúgum grædir, daudans harma lifandi sár, huggun sú í hjartad blædir, hrygd ef mædir, míns er vinar minníng klár.

5. Súrann skérf af sorgar ecka, sikri þessu byrladann finn eg brjósti mín, Guds af hendi géfinn ad drecka, gledi og ángur leifir minníng lysta þín, í allri dygd og æru-prýdi, audnu minnar gimsteinn klár, hjartans ástar elsku þýdi, Fadir minn frídi, þín eg harma þrotin ár.

6. Eins sem Gud mér uppá lagdi, ást og hylli verduga lífs ad veita þér, líka tjá med ljúfu bragdi, lidsemd, æru, þægd án kífs og hlýdni hér, blessadra molda blómgan þinni, byrjar svo eg unni fast, medan verkan valda sinni, vit og minni, tíd og kraptar tilendast.

7. Kristí brúdar kyngott sædi, qvikuad undir fridarins vængjum fæddist þú, skrýddur helgu skírnar klædi, Skaparans bjó þitt hjarta, sæng, hin hreina trú, lánid, heilsu þroska þádir, þig bar Gud á høndum sín, æskutíd med æru kljádir, uxu nádir, heill og blessan høgum þín.

8. Ærlegrar quinnu ekta=bandi, undir hér í talin Sex og tuttugu ár, sorgir deyfdi ástar andi, ydkar sæng, án hvílu flekks var hald=in klár, fjøgra barna frjófgun þadi, fagn=ar eitt í himna = víst, hin med lífsins harma rádi, heims á ládi, dyggvaun þreya fødur=inn fyrst.

9. Otta Guds um æfi sinntir, ástarholl=ur, bædi qvinnu, børn og hjú, þrásamlega þar áminntir, þackláfur og bænrækinn, med tár og trú, hyggjuspakur, happanægur, heilord=ur og góðvikinn, frómur í hjarta, fridgjarn hægur, flestum þægur; sá er hródur sann=qvedinn.

10. Elsku = merkin øgunar sinnar, á þér Drottinn þægur byrti, þinn húss = krøss, hærri barst um hlut æfinnar, Herrans tiptun æ þér virdtir ástar = koss, stirkur trúar stríds þolgódur, stødugsega bardist þinn, þar til beyskur harma hnjódur, minnar módur, full=snérist í føgnudinn.

11. Sælu himna sídan þreydi, sálin þín, til Guds heimkynna fyrri fús: ei var lokid árfins skeidi, ádur hennar leid bar inn í lif=endra hús; sann = audmjúkur sídast þádir, sálar verd á kyrkju fund, heilsu brugdinn

hægt þig tjáðir, heim svo náðir, sagðir líða að sælli stund.

12. Furðu viss um frelsið hraðast, framleiðst undir Herrans klárum hlífðar væng, andvørp heit í Guði gladast, grátinn hófst og døggvaðir tárum dauða sæng, lofaðir Drottins aðstoð alla, æskilega héðan bjóst, vinunum blessan valdir snjalla, vits án galla, sæll í Guði síðan dóst.

13. Tignar verðlaun trúrra þjóna, tók þín sál í frið heim boðin, frjáls við mein, leiptrar henni lífs kóróna, Lausnarans Jesú blóði roðin, bjørt og hrein, hafnar synda hugraun kjælli, hvergi dauðans kénnir fár, allri vitund soma-sælli, sjón yndælli, fagnar Guðs, um eilíf ár.

14. Í þeim heiðri skjært að skarta, skoða og smakka Drottins húsa dýrð og nægð, ann eg þér, mitt ástar hjarta, í verøldu mér góðfúsa mjøg vanst þægð; þín var dygðin holl í heimi, hagur, ljós og unun mín, sætt hafnaði sinnu-geymi, sútar eymi, tilhugsunin tryggða þín.

15. Hag minn gjørðir hefja og styðja, hvattir mjøg á allskyns dygð, en einkum þó, að óttast Guð og æ tilbiðja, orð hans rækja, stunda dygð og styrkja ró, sjálfur

æfdir sømu dádir, sællrar audnu badst mér titt, aldrei sérdann hug minn hrjádir, hugg-un tjádir, mig ef þecktir mæda lítt.

16. Nú er þessu lokid láni, líffsins ockar daudinn skilur stad og stund, í audn er sem fyrir augum bláni, andlits skuggi þinn mitt hylur ljós og lund; mér þinn sess á móti grætur, mín vid hann eg felli tár, svo munu eydast eymda nætur, ángurs bætur, jafnhef-jist og Júbil ár.

17. Senn uppskín (þad svalar gédi, sof-endra þó húmi af ljósum), hagur inndæll, qved eg þig med grát og gledi, í Guds lif-endra bindinis rósum badadu sæll! dygd ad erfdum dæmi þína, Drottinn Jesús minni sál, svo meigi hún eptir mædu sína, med þér skína, sam-qvedandi sigur mál!

18. Allra heilla fadirinn fridi, fyrir sár-ann grædarans dauda, qvein og köll, meti oss bót á mædu og stridi, marin smyrji blódi hans rauda beinin øll, ferskum óska-fundum blandi, sál þegar heljan dynur á, eilífrar sælu und-ir standi, á yndis landi, vist oss festi vinun-um hjá!



# Sálarinnar Sigurhrós í himninum.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Ó hó minn dýrkann arf! ó hó minn frelsis hag! eja mitt unnid starf! eja minn sigur dag! eg sem fyrr døpur dró, daudleganu, sorgum mædd, líkama, þolug þó, þeim er nú loks afklædd.

2. Minn fyrir synda seck, Seraphims klæda skart, nádar þyrst nú eg feck, nærsta mjøg hreint og bjart, Gud lífsins gaf mér sæll, grátinnk lausnar dóm, hans fadmur hír, yndæll, hefgar minn sigur róm.

3. Sú dymma sorgar nótt, sem æ bar gledi þørfn, horfin er furdu fljótt, fláug eg sem brádur ørn, hátt uppúr daudans dal, dýrdar Guds hæda til, kominn í kóngsins sal, klíngja læt gledi spil.

4. Allskyns værd vafin hér, vid lífsins eyk eg skín, hún gefur hunáng mér, af hverjum qvisti sín, hennar vínberja blóm, blessad og ylmandi, gjørir mér sætann góm, gledinni mettandi.

5. Grætir ei gédid neitt, geislar af sínum stól, allann veg ad mér heitt, eilíf rétt=

lætis sól, bed mitt er búid kríng, blankandi liljunum, hørpu nid allt í hríng, heyri eg med dans-leikum.

6. Engann hef edlis brest, andvaralaus er værd, kjærleikans kjæti hrest, kraptanna styrkíng nærd, gyrndin í Gudi øll, gjør opnud þeckíngin, heilsunnar hvergi spjøll, hugur, mál fullkomin.

7. Sem engill sól fagur, sýng eg í þeim føgnud: heilagur! heilagur! heilagur Drottinn Gud! lambinu lofgjørd vís, líkt verdi æ samin, heilsa, magt, heidur, prís, hærst vald og dýrd, Amen.



# Graf-skrift.

Ørendur heidurs hærum,
hér sádi loks til náda,
Þórarinn þegn hinn dýri,
Þorláksson æru borinn,
sæld jók vid sjøtugs aldur,
samblundar Egta sprundi,
byggja dýrd andir Beggja,
bein frjófgar minníng hreinust.



# Utfarar Minning, Lauritz Hanssonar Schéving,

sem á sinni heimreysu til Islands, frá Kaupmannahøfn deydi 6ta Júnii 1741, á 18da aldurs ári við Norveg og er þar jardadur.

Lagid: Gud Fadir, Son og Andinn hreinn.

Því er nú kjørum þanninn breytt? þøgn erfir sætann hljóm, skérdir óvørum skinid heitt, skúrvidris dymman gróm, eymir af skørum, en er leidt, út á líkbørum hédan eitt, uppþornad edla blóm.

2. Því er mín hjartans lyst og ljós, lidin svo brádt af fold, mitt vonar skart og hugar hrós, horfid svo djúpt í mold, mín æsku bjarta yndis rós, eymstrud svo hardt á bylgjum sjós, ad svipt er sálu hold.

3. Utpressar tárin augna mín, ángrinu hjartad sker, minn kjæri Lauritz minníng þín, frá módur-knjánum hér, þín dæma klárust dygdin fín, þær daudans bárur gégnum skín, sem hédan sviptu þér.

4. Upprunnid blóm af edla rót, ættar og dygdar mest, gyrnd í barndómi gafst þér fljót, Guds veg ad stunda best, blídleikans fróma barst vidmót, byrtir med sóma þægdar hót, mér æsku-manna flest.

5. Hlýdninnar dádum innst af allt, æra þín finnti klár, gódum heilrádum gafst æ vakt, gédprúdur síd og ár, ávarpid tjádir öllum spakt, ástheilla þádir géngid skakt, lofstír og lucku spár.

6. Gáfum ei sídur Gud þig bjó, glærsku þær dygda krans, nett-skarpur, frídur, námsæll þó, nádir veg þjód-framans, manngjædsku prídin menta frjó, mesta hrós lýda til sín dró, utan sem innan lands.

7. O þitt skammvinna líf á lád, lífsverdugasta blóm! æ hvad eg þinni æsku dád, undi hér lífs um tóm, hjartad í minni hefur þad sád, hér medan finni géfst og rád; minn þecki eg mædu dóm.

8. Elli med dygdum æfi þín, árdegis hefur nád, falin Guds trygdum fékk vel sín, forløg á enda kljád, í himna bygdum hugurinn skín, holdsins afskygdur sút og pín, lík hvílur Norvegs lád.

9. Veraldar fær ei vondska nein, vélad meir þína sál, heilsunnar særíng, hugarins

mein, heims=bøl og andar tál, síst kann þér næra sinnu qvein, sál þín og æra geisla hrein, mædist ei sigur=mál.

10. Við þau að skarta vilkjør sín, og venda í sælu rann, út af Guðs hjarta gleðinnar vín, grát=feiginn þér eg ann, fundunum snart eg fagna þín, frómleikans hjarta liljan mín, ei skiljum upp þaðan.

11. Ástvina þinna sorgir sér, samtengi Jesús klár, hærstar svo finni hugganir, hans fyrir blóðug sár, ljúfur þeim inni liðsemdir, loksins af kinnum þeirra hér, øll þerri ángurs tár.

12. Lífkrøptug æða lindin þín, Lausnar=inn Jesú kjær! øll hugar=mæða, eymd og pín, ángurs bót sé mér vær, himneskra gjæða heilsu=vín, hjartans blæða láttu mín, dapur þá dauðinn slær.

13. Vinina fróma veit þú mér, verndar=inn trúr að sjá, sveipaða ljóma, líka þér, lifendra bygðum á, kjærleikans blóma þar ei þver, og þínar hljóma lofgjørðir, ó Guð! um eilífð há.

---

# Utfarar Minning, Sr. Skúla Illugasonar,

sem deydi á 44 aldurs ári 1744.

(*Prosopopæia*)



Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Far vel hinn forni heimur, far vel þú hærda tímans øld, þinn hagur, hefd og seimur, heilsa, frídleiki, ment og vøld, yckar eg eingann þádi, eignar-rétt lífs um tón, hugur minn heldur þrádi, himneskann eigindóm, sem fugl á flugi beinu, fram ørt um tára stig, úr módur skauti einu, til annars báru mig.

2. O verøld yndis-nauma! eg hefi sagt þér góda nótt, vid þína stygdar strauma, stúrdi eg fyrr med harma gnótt, mér jókstu margar tídir, meinsemdum þrúngid brjóst, æfi-spor øll um sídir, ad því takmarki drógst, mettadir mædu lángri; midt á útlegdar fold, dryckjadir daudans ángri, og duptinu þakid hold.

3. Þínum þjáníngum undir, þjøkud er øndin lífi frá, mínar mótlætis stundir, máttir þú ecki leingur kljá, baráttan burtu flúin,

byrjad fagnadar-hrós, fjøtur í frelsi snúin, framreidt af myrkrum ljós, sorgum í sælu hrindir, saftir útgéfa þær, himnesku Helims lindir, horfin er Mara sjær.

4. Drottinn, sem fyrir mig fordum, fridarins bod lét úthrópast, og í sáttmálans ordum, allt sitt hjálpraedi kunngjørast, veiku sád-verki minu, veitt hefur umbun þá, framstíginn fjørs af línu, fæ eg hans dýrd ad sjá, mitt braud er fólgid Manna, minn dryckur gledin ein, mitt túngumál englanna, magt á lífs trénu hrein.

5. Ædsti Gud hinn útvaldi, er mig í heimi skicka réd, vørd á Zions vardhaldi, vitnisburdarins ljósi med, lífs hefur lampann sjálfur, leidt fyrir sínum þjón, hátt yfir heimsins álfur, ad himna veldis trón, von minni víst ei hneckti, vitnisburd þann eg hlaut, og nafn, sem einginn þeckti, annar enn sá þess naut.

6. Hér ber eg hvít-glansandi, heilagann skrúda Seraphims, med sigri sam-dansandi, saungva herskara Cherubims, heilsunnar hladinn blóma, himins á rósum geing, losid Guds leindardóma, leik á Guds hørpu-streing, mótlætis mædu og synda, minníngu vidskil-

inn, ljóssins umgéfinn linda, lausnar hag þacka eg minn.

7. Voldug vegsemdar króna, veglega mér á høfdi skín, geislandi Guds ásjóna, gledur forklárud augu mín; læt eg því ecki linna, lofs og fagnadar dans, medtekinn sælla minna, midt í ástvina krans, vellyst þá vid ad skína, vilkjør sem øll áqvad, sí-þyrsti sálu mína, sjá þad er fullkomnad.

8. Frelsi því fagna skyldir, fyrrum ást-kjæra sóknar hjørd, þad einnig þacka vildir, þínum helgasta sálar vørd, ad mig frá mædu strángri, medtók í fognud sinn, elsku-géd þitt ei ángri, andláts skilnadur minn, Gud mun þér gledi senda, greidandi kjør í lag, og vernd-ar kápu venda, voldugur yfir þinn hag.

9. Løg hans og líknar dóma, líf og hugg-unar reglu þér, haldtú med hegdan fróma, honum þacklát í øllu ver, svo mun þinn sómi fagur, síd og ár margfaldast, eptirá yndis-hagur, eilífur fullkomnast, mig gladdir mildi þídur, meti Guds dygda-safn, feigins ad fundum lídur, far vel í Jesú nafn.

10. O mín kjær egta dúfa! eptir syrgjandi mædd í heim, med høfud og arma hrjúfa, huggadu þig af kjørum þeim, ad eg, sem eymdum vafinn, í þinu skauti lá, til eilífrar

hægt þig tjádir, heim svo nádir, sagdir líða ad sælli stund.

12. Furdu viss um frelsid hradast, framleidst undir Herrans klárum hlífdar væng, andvørp heit í Gudi gladast, grátinn höfst og døggvadir tárum dauda sæng, lofadir Drottins adstod alla, æskilega hédan bjóst, vinunum blessan valdir snjalla, vits án galla, sæll í Gudi sídan dóst.

13. Tignar verdlaun trúrra þjóna, tók þín sál í frid heim bodin, frjáls vid mein, leiptrar henni lífs kórónu, Lausnarans Jesú blódi rodin, bjørt og hrein, hafnar synda hugraun kjælli, hvergi daudans kénnir fár, allri vitund soma-sælli, sjón yndælli, fagnar Guds, um eilíf ár.

14. Í þeim heidri skjært ad skarta, skoda og smacka Drottins húsa dýrd og nægd, ann eg þér, mitt ástar hjarta, í verøldu mér gódfúsa mjøg vanst þægd; þín var dygdin holl í heimi, hagur, ljós og unun mín, sætt hafnadi sinnu-geymi, sútar eymi, tilhugsunin trygda þín.

15. Hag minn gjørdir hessa og skydja, hvattir mjøg á allskyns dygd, en einkum þó, ad óttast Gud og æ tilbidja, ord hans rækja, stunda dygd og skrýdja ró, sjálfur

æfdir sømu bádir, sællrar audnu badst mér títt, aldrei særdann hug minn hrjádir, huggun tjádir, mig ef þecktir mæda lítt.

16. Nú er þessu lokid láni, lífsins ockar daudinn skilur stad og stund, í audn er sem fyrir augum bláni, andlits skuggi þinn mitt hylur ljós og lund; mér þinn sess á móti grætur, mín vid hann eg felli tár, svo munu endast eymda nætur, ángurs bætur, jafnhefjist og Júbil ár.

17. Senn uppskín (þad svalar gédi, sofendra þó húmi af ljósum), hagur inndæll, qved eg þig med grát og gledi, í Guds lifendra bindinis résum badadu sæll! dygd ad erfdum dæmi þína, Drottinn Jesús minni sál, svo meigi hún eptir mædu sína, med þér skína, sam-qvedandi sigur mál!

18. Allra heilla fadirinn frídi, fyrir sárann grædarans dauda, qvein og køll, meti oss bót á mædu og strídi, marin smyrji blódi hans rauda beinin øll, ferskum ósca-fundum blandi, føl þegar heljan dynur á, eilífrar sælu undir standi, á yndis landi, vist oss festi vinunum hjá!



# Sálarinnar Sigurðrós í himninum.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Ó hó minn dýrstann arf! ó hó minn frelsis hag! eja mitt unnid starf! eja minn sigur dag! eg sem fyrr døpur dró, daudlegann, sorgum mædd, líkama, þolug þó, þeim er nú loks afklædd.

2. Minn fyrir synda sekk, Seraphíms klæda skart, nádar þyrst nú eg feck, nærsta mjøg hreint og bjart, Gud lífsins gaf mér sæll, grátinnk lausnar dóm, hans fadmur hír, yndæll, hefgar minn sigur róm.

3. Sú dymma sorgar nótt, sem æ bar gledi þørfn, horfin er furdu fljótt, fláug eg sem brádur ørn, hátt uppúr daudans dal, dýrdar Guds hæda til, kominn í kóngsins sal, klíngja læt gledi spil.

4. Allskyns værd vafin hér, vid lífsins eyk eg skín, hún gefur hunáng mér, af hverjum qvisti sín, hennar vínberja blóm, blessad og ylmandi, gjørir mér sætann góm, gledinni mettandi.

5. Grætir ei gédid neitt, geislar af sínum stól, allann veg ad mér heitt, eilíf rétt-

lætis sól, bed mitt er búið kríng, blankandi liljunum, hørpu nið allt í hring, heyri eg með dans-leikum.

6. Engann hef eðlisbrest, andvaralaus er værð, kjærleikans kjæti hrest, kraptanna styrkíng nærð, gyrndin í Guði øll, gjør opmuð þeckíngin, heilsunnar hvergi spjøll, hugur, mál fullkomin.

7. Sem engill sól fagur, sýng eg í þeim føgnuð: heilagur! heilagur! heilagur Drottinn Guð! lambinu lofgjørð vís, líkt verði æ samin, heilsa, magt, heiður, prís, hærst vald og dýrð, Amen.



# Graf-skrift.

Örendur heiðurs hærum,
hér sáði loks til náða,
Þórarinn þegn hinn dýri,
Þorláksson æru borinn,
sæld jók við sjøtugs aldur,
samblundar Egta sprundi,
byggja dýrð andir Beggja,
bein frjófgar minníng hreinust.



# Utfarar Minning, Lauritz Hanssonar Schéving,

sem á sinni heimreysu til Islands, frá Kaupmannahøfn deydi 6ta Júnii 1741, á 18da aldurs ári við Norveg og er þar jardadur.

---

Lagid: Gud Fadir, Son og Andinn hreinn.

Því er nú kjørum þanninn breytt? þøgn erfir sætann hljóm, skérdir óvørum skinid heitt, skúrvidris hymman gróm, eynir af skørum, en er leidt, út á líkbørum hédan eitt, uppþornad edla blóm.

2. Því er mín hjartans lyst og ljós, lidin svo brádt af fold, mitt vonar skart og hugar hrós, horfid svo djúpt í mold, mín æsku bjarta yndis rós, eynnstrud svo hardt á bylgjum sjós, ad svipt er sálu hold.

3. Utpressar tárin augna mín, ángrinu hjartad skér, minn kjæri Lauritz minning þín, frá módur-knjánum hér, þín dæma klárust dygdin fín, þær daudans bárur gégnum skín, sem hédan sviptu þér.

4. Upprunnid blóm af edla rót, ættar og dygdar mest, gyrnd í barndómi gafst þér fljót, Guds veg ad stunda best, blídleikans fróma barst vidmót, byrtir med sóma þægdar hót, mér æsku-manna flest.

5. Hlýdninnar dádum innst af alt, æra þín finnti klár, gódum heilrádum gafst æ vakt, gédprúdur síd og ár, ávarpid tjádir øllum spakt, ástheilla þádir géngid stakt, lofstír og lucku spár.

6. Gáfum ei sídur Gud þig bjó, glærstu þær dygda krans, nett-skarpur, frídur, námsæll þó, nádir veg þjód-framans, manngjædsku prídin menta frjó, mesta-hrós lýda til sín dró, utan sem innan lands.

7. O þitt skammvinna líf á lád, lífsverdugasta blóm! æ hvad eg þinni æsku dád, undi hér lífs um tóm, hjartad í minni hefur þad sád, hér medan finni géfst og rád; minn þecki eg mædu dóm.

8. Elli med dygdum æfi þín, árdegis hefur nád, falin Guds trygdum féck vel sín, forløg á enda kljád, í himna bygdum hugurinn skín, holdsins afskygdur sút og pín, lík hylur Norvegs lád.

9. Veraldar fær ei vondska nein, vélad meir þína sál, heilsunnar særíng, hugarins

mein, heims=bøl og andar tál, síst kann þér nœra sinnu qvein, sál þín og œra geisla hrein, mœdist ei sigur=mál.

10. Vid þau ad skarta vilkjør sín, og venda í sœlu rann, út af Guds hjarta gledinnar vín, grát=feiginn þér eg ann, fundunum snart eg fagna þín, frómleikans hjarta liljan mín, ei skiljum upp þadan.

11. Ástvina þinna sorgir sér, samtengi Jesús klár, hœrstar svo finni hugganir, hans fyrir blódug sár, ljúfur þeim inni lidsemdir, loksins af kinnum þeirra hér, øll þerri ángurs tár.

12. Lífkrøptug œda lindin þín, Lausnarinn Jesú kjœr! øll hugar=mœda, eymd og pín, ángurs bót sé mér vœr, himneskra gjœda heilsu=vín, hjartanu blœda láttu mín, dapur þá daudinn slœr.

13. Vinina fróma veit þú mér, verndarinn trúr ad sjá, sveipada ljóma, líka þér, lifendra bygdum á, kjœrleikans blóma þar ei þver, og þínar hljóma lofgjørdir, ó Gud! um eilífd há.

---

# Utfarar Minning, Sr. Skúla Illugasonar,

sem deydi á 44 aldurs ári 1744.

(*Prosopopæia*)

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Far vel hinn forni heimur, far vel þú hærda tímans øld, þinn hagur, hefd og seimur, heilsa, fridleiki, ment og vøld, yckar eg eingann þádi, eignar=rétt lífs um tón, hugur minn heldur þrádi, himneskann eigindóm, sem fugl á flugi beinu, fram ørt um tára stig, úr módur skauti einu, til annars báru mig.

2. O verøld yndis=nauma! eg hefi sagt þér góda nótt, vid þína stygdar strauma, stúrdi eg fyrr med harma gnótt, mér jókstu margar tídir, meinsemdum þrúngid brjóst, æfi=spor øll um sídir, ad því takmarki drógst, mettadir mædu lángri; midt á útlegdar fold, dryckjadir daudans ángri, og duptinu þakid hold.

3. Pínum þjáningum undir, þjøkud er øndin lífi frá, mínar mótlætis stundir, máttir þú ecki leingur kljá, baráttan burtu flúin,

byrjad fagnadar=hrós, fjøtur í frelsi snúin, framreidt af myrkrum ljós, sorgum í sælu hrindir, saftir útgéfa þær, himnesku Helims lindir, horfin er Mara fjær.

4. Drottinn, sem fyrir mig fordum, fridarins bod lét úthrópast, og í sáttmálans ordum, allt sitt hjálpræði kunngjørast, veiku sád=verki mínu, veitt hefur umbun þá, framstíginn fjørs af línu, fæ eg hans dýrd ad sjá, mitt braud er fólgid Manna, minn drykkur gledin ein, mitt túngumál englanna, magt á lífs trénu hrein.

5. Ædsti Gud hinn útvaldi, er mig í heimi skicka réd, vørd á Zions vardhaldi, vitnisburdarins ljósi med, lífs hefur lampann sjálfur, leidt fyrir sínum þjón, hátt yfir heimsins álfur, ad himna veldis trón, von minni víst ei hnekkti, vitnisburd þann eg hlaut, og nafn, sem einginn þeckti, annar enn sá þess naut.

6. Hér ber eg hvít=glansandi, heilagann skrúda Seraphims, med sigri sam=dansandi, saungva herskara Cherubims, heilsunnar hladinn blóma, himins á rósum geing, losid Guds leindardóma, leik á Guds hørpu=streing, mótlætis mædu og synda, minníngu vidskil-

inn, ljóssins umgéfinn linda, lausnar hag þacka eg minn.

7. Voldug vegsemdar króna, veglega mér á høfdi skín, geislandi Guds ásjóna, gledur forklárud augu mín; læt eg því ecki linna, lofs og fagnadar dans, medtekinn sælla minna, midt í ástvina krans, vellyst þá vid ad skína, vilkjør sem øll ágvad, sí-þyrsti sálu mína, sjá þad er fullkomnad.

8. Frelsi því fagna skyldir, fyrrum ást-kæra sóknar hjørd, þad einnig þacka vildir, þínum helgasta sálar vørd, ad mig frá mædu strángri, medtók í føgnud sinn, elsku-géd þitt ei ángri, andláts skilnadur minn, Gud mun þér gledi senda, greidandi kjør í lag, og vernd-ar kápu venda, voldugur yfir þinn hag.

9. Løg hans og líknar dóma, líf og hugg-unar reglu þér, haldtú med hegdan fróma, honum þacklát í øllu ver, svo mun þinn sómi fagur, síd og ár margfaldast, eptirá yndis-hagur, eilífur fullkomnast, mig gladdir mildi þídur, meti Guds dygda-safn, feigins ad fundum lídur, far vel í Jesú nafn.

10. O mín kjær egta dúfa! eptir syrgjandi mædd í heim, med høfud og arma hrjúfa, huggadu þig af kjørum þeim, ad eg, sem eymdum vafinn, í þínu skauti lá, til eilífrar

heilsu hafinn, hægd alla ber nú þá, sem Drottins dauda harmar, dýrdlegu keyptu mér, og hans blód=drifnir armar, ørmagna gáfu af sér.

11. Frá mínum fadmi skilinn, fadmløgum Jesú taktu mót, Herrans brjóst=unda ilinn, inndragdu þér í hjartans rót, svo þínum ángurs ørum, eydi þad gledi hnoss, veittu hans trygda vørum, varmann hugástar koss, hann er þinn hjartans maki, hann er þín andar sól, hans vængur yfir þér vaki, og veri þitt hlífdar skjól.

12. Yfir minn andláts skugga, útgéf nú framar tár ei þín, heldur lát sinnid hugga, hér eptir kémur þú til mín, blessud í brúdkaups klædi, búum þá sídan ad, heiløg og hólpin bædi, í himneskann fridar stad, trega senn tídir þverra, treystu því síd og ár, þinn Jesús mun af=þerra, þín loksins gjørvøll tár.

13. Far nú vel hjartad fróma, falinn ást=hylli grædarans, haf þøck og heilla sóma, heit fyrir goldin trygda bands, einn Gud sem øllu rædur, úngunum dilli þín, heims vid úthafnar mædur, hefji þau upp til sín; eg bíd á yndis landi, eptir þeim gledi fund, jafnan júbilerandi, vid Jesú hægri mund.

## Eckjunnar andvarp.

Lagid: Lit upp min ljúfa sud.

Svo leidir skýa skúr, skírvidri dags um frón, sorgar andvöku sældar dúr, sætt sklag yndis tjón.

2. Svo dymmir degi af nótt, Drottinn Gud sjá til mín! gégnum ángistar húmid hljótt, horsi eg upp til þín.

3. Þú hefur myndad mig, mín sálar um= um kjær, ástvin trúfastann á eg þig, alltir þó standi fjær.

4. Fadir og módir mín, mig yfirgáfu hér, en hugul ástar höndin þín, hefur sí=villad mér.

5. Skírnar laug skjæra vid, skart andar minnar bjó, lífs heidur, yndi, lán og frid, lént hefur sídan þó.

6. Allann minn hag í heim, hún ad sér jafnan tók, leiddi mig fram ad landi þeim, lystir míns hiarta jók.

7. Gjædum var grónn krans, geysla mér yfir brá, sólskyn á laufum leit eg hans, ljóma Guds hædum frá.

8. Kristí blód=falla krapt, kjarn=dreginn hafdi sér, hans af ávortum helga fast, hrærdu Guds verkaner.

27. Réttu mér hjálpar hönd, heit=orðin minnstu góð, þín hefur blíð og blessuð önd, bundið sér eckna móð.

28. Munaðarleysið mitt, meðlæti hjástoð þín, faðmi dýrasta forsvar þitt, föðurlaus börnin mín.

29. Geymdu þau, Guð minn trúr! grand=laus í vöku og blund, vegur, sól, hæli, vagn og múr, vertu þeim alla stund.

30. Í þínu ljósi leið, líf og önd þeirra og mín, eptir sikraða síðurstu neyð, safnaðu oss heim til þín.

31. O Guð! eg þacka þér, þinn sannleiks rétt og dóm, þú léntir bæði og burt=sviptir, blessuð sé náð þín fróm.

32. Æ kom og ecki tef, ást=kjæri Jesú minn! skjótt mig úr dauðans skugga hef, í skoðunar ljóma þinn.

33. O minn unnústi sæll! eg þig með tár=um qveð, hug þínum sé Guðs himin inndæll, holdi sætt jarðar beð.

34. Þacka eg sambúð þín, þægasta lífs um stund, eg veit þú kemur ei til mín, á þinn eg sæki fund.

35. Þú hefir þegið frið, þín sól ei und=ir gár, lifðu, ó Guðs mann! ljós það við, lof=sæll um eilíf ár.

# Utfarar Minníng, Jóns Jónssonar,

## ad Vøglum í Hørgárdal, er deydi 1758.

### Undir Nafni barna hans.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

O þú lindin eilífs góda, ylmsætasti Jesú minn! hjálpin allra heimsins þjóda, hverskyns meina grædarinn, þú sem kallar þjáda og móda, þíns í ríkis føgnudinn.

2. Guddóms ást og gjædsku þína, gét eg aldrei fullþackad, sorgum firrtir sálu mína, sjálfur þoldir heljar bad, svo þín tára-laug og lína, leiddi mig í sælu stad.

3. Besta skarti brúdar þinnar, bjóstu mig í skírnar sá, eyd-batst þig til andar minnar, alla qvittir synda þrá, nægstu svølun nádarinnar, nem eg þínum brjóstum á.

4. Lífid mitt í lyst og vanda, lífi þínu er innsiglad, þreyttann hressir þad minn anda, þjáníng hvør sem fellur ad, millum þinna módur-handa, mjúkann finn eg grida stad.

5. Þó eg heilsu, yndi og audi, afklædist og verdi hér, lík, sem þekur leyrinn raudi, lífs-

18. Eg mun þig á himna hæðum, horf-in aldri sút og þrá, yfir skrýddann Cherubs klæðum, kórónaðann sigri há, í helgustu ástar gjæðum, eilíflega finna og sjá.

19. Dygð og blessan dæmi þína, Drott-inn Jesús mér í arf, láti mæða mýkun sína, mér að inna lið, sem þarf, leyfi hjá þér loks að skína, lífsins eptir mæðu starf.

20. Herra Jesú! veit mér vera, von og styrk í dauðans þrá. Mildi Jesú! mína ást-kjæra, mér unn þú í dýrð að sjá. Þíði Jesú! þér sé æra, þökk og prís um eilífð há.

---

## Utfarar Minníng,

þeirrar góð-frægu Höfðíngs qvinnu

## Guðrúnar Vigfúsdóttur,

sem deyði nóttina milli þess 3ja og 4ða Decembr. á hennar 66 aldurs ári, 1767.

---

Lagið: Sólin uppruninn er.

Hvað skyggir hreina sól? hvað stjörnur klárar? hvað grætir hauðurs ból? hverju vill ára? hví gefa hljóm, helgidóms málm-

ar fridir? vakinn sem visi dóm, vottandi klockvum róm, tárugar tidir.

2. Utréttur Drottins er, armleggur fundinn, þángad sem hafdi hér, hinn skjæra lundinn, fyrr gródurfest, fegurstu aldin gjædum, vidsýndar vaxinn mest, vøkva lísandi best, af Zemachs ædum.

3. Þennann med brum og blóm, blæ líkann fáum, í daudans húm og hjóm, horfinn nú sjáum; æ! ángurs pín, il=sætar kulna glódir, sorgbitnu sinni mín, sárt er ad minnast þín, mild Edla módir!

4. Uppgéck þitt æsi=hrós, ad Drottins rádum, krans=føgur qvenna=rós, krínd adalbádum; sæl Kristí mynd, systir og elskubrúdur, marg=dryckjud lífsins lind, lífsins fadmadir hind, vid lífsins lúdur.

5. Hans ást þér ylmadi, ok hans trú glæddi, hans ord þig helgadi, hans andinn fræddi, hans hægri hønd, hollust var þín ábreida, sú vinstri svæfill, ønd, svo máttu ei nockur grønd, andar hvíld eyda.

6. Eitt blóm af edla rót, eins varstu manna, eitt blóm ad erfdum fljót, adals himnanna, eitt blóm í øld, atgjørfis, hold er prýddi, eitt blóm ad audnu tøld, æsinnar framm á qvøld, hvern tíd sem hlýddi.

7. Ypparlegs egta-manns, önd og kó-róna, hag og lífs-yndi hans, hugqvæm að þjóna; heill, hefð og ljós, húsfins á alla vega, barnanna býr og hrós, blessunar hind og rós, metin maklega.

8. O Guðelsk Tunyche! ó forsjál Marhta! þitt loflegt líferni, lengi mun starfa. Hrein hjartans trygð, hógværð og spektar æði, föst auðmýkt, fögur blygð, fágjæt örlætis dygð, merk þolinmæði.

9. O! að hver árfl þinn, ætt-génga findi, heill þína og heiðurinn, hegðan og lyndi. Sér sjálfum rótt, sól meðan geyslum hreifir, hitt þjáir þankann fljótt, þinn dagur forgár nótt, lifendum leifir.

10. Þitt harma þrotið skeið, þínir ást-kjæru, þig harmar bygðin breið, burðin géðs æru, þig harmar hér, hús Guðs og þinn bústaður, þig harma þurfandir, þig harma góðkunnir, mjög sem einn maður.

11. Síðan þér vein og vans, vann dauð-ans mæði, umsnúinn er minn dans, í sorgar qvæði; ung æsku tíð, upphreifir tára minni, holl, margföld, hugul, blíð, hrærir þín dygð-in fríð, söknuð í sinni.

12. Minn greiddir menta veg, mig upp-fóstraðir, mín kjör marg-haganleg, mjög

umsorgadir. Mér unntir mest, mýskunar Guds af hjarta, minn þoldir margann brest; mig þjádann gladdir best, blómid hugbjarta.

13. Ódáins æra þín, úrrædi nauda, raunhollust rækti mín rétt framm í dauda; sár svídur und, sviptir þíns lífs, er faldi, mitt ángurs mædu pund, og marga gledi-stund, í veröld valdi.

14. Huggar þó hjartad mitt, hversu rólega, lífsins Gud lífid þitt, leiddi frá trega, nestada sætt, nátt-verdi Jesú dýrum, sídan frá sorgar ætt, svæfda med yndid rætt, í hans fadmi fridum.

15. Þín gódverk þúsundföld, þacknæmust Gudi, borgar nú alda öld, ædsta fögnudi, uppskéran þar, allann fullkómnar sóma, hér bera blessunar, beinin hag frjófgunar, inn til dags dóma.

16. Edla ást-manna þín, ángur Gud bæti, egtamanns vatni í vín, veinan í kjæti, fyrir Jesú tár, fagur-raud virdist snúa, þeim öllum þerri brár, þitt sæla Júbil ár, eptir lífs lúa.

17. Sof nú af sorgum qvitt, sigurs med gnóttir, Gudrún í Gudi fritt, glöd Vigfúsdóttir, uns alheims þjód, uppvekur

Guds básúna, og þín bein líks af lóð, leiðir dags ystu rjóð, blær morgun brúna.

18. O Jesú! andlát þitt, yfir mig blæði, lífgun, þá lífið mitt, lír daudans mæði, svæfðu mig sætt, synd mína gjør ørenda, svo friðar frelsið mætt, finni eg með þinni ætt, í dýrð án enda.



# Graf-skrift.

Hér sefur Høfdings mær, heidurs með gnóttir, Gudrún gull-lampi skjær, góð Vigfúsdóttir, af adli lands, upprunnin veglegasta, hærstum þó himna ranns, hvíld undir dygda krans, nam náð skírasta.

2. Búið líkblæu hold, blómlegast forðum, þessa heims þakið mold, þreyr að Guðs orðum, sálin ótvíst, saung dýrðar lætur hljóma, þar til Guðs lúðurs lyst, lénar þau samtengist, á degi dóma.

---

Þú maður bíðandi, þeink hár og skríðandi, þér ber að deya.

Lif Guði hlýðandi, hag dygðum prýðandi, hrein forsjál meya.

Sértu vel lídandi, sæll muntu strídandi,
sigurinn heja.
Vert ecki qvídandi, sorg eptir svídandi,
sætt kémur eja.



*MISCELLANEA.*

# Fjalla nøfn úr heilagri Ritníngu.

Hér skal Fjalla heiti þjód,
herma þau er Ritníng tjer:
Ararath bar eptir flód,
ørkina med sínum her.
Þaut af Sína þrumu hljód,
þadan géfid Løgmál er.
Knást af Ebal kneifdu hnjód,
kénnimanna bølvanír.
Baudst af Grizim blessan gód,
bádum Amen sagdi hver.
Uppá Hór hann Aron tród,
afklæddann þar lesum vér.
Bjó á Seir med børn og fljód,
bródir Jacobs hylli þver.
Sjø á Pæór Zipors jód,
sjón ølturu bygdi ver.

Tjöld á Sapher reistu rjóð,
reistu fylkin erfða gjer.
Baala nær með benja stóð,
bjuggu Júða kyn=þættir.
Ephraim ei bar vídbjóð,
besta kyn þá fold yrkir.
Salmon, Hebron, enn í óð,
Ephron, Heres, skriftin lér.
Midt af Písga mót Asdóð,
Móses hvísdar landið sjer.
Hann á Nebó heljar stóð,
hitti senn og géck yfir.
Heit af Zíon hrinda móð.
Hæð þá Davíðs slot gyllir.
Flaut af Hermon hins á lóð,
hlý nátt=døgg og frjófsemdir.
Mesta borg á Moría stóð,
Musterið og heiløg kér.
Hár Líbanus, fregn er fróð,
frægann Cedrus við geymir.
Hraut á Carmel himin glóð,
hremmdi tvenna fimmtýgir.
Fjøll Gilbóa víg um vóð,
versti dauði Saul þar skér.
Fleitti Thabor føgrum sjóð,
forklárunar prísinn ber.
Á Golgatha útrann blóð,

allann heim er fridþægir.
Oliveti heidri hlód,
Herrans pín og uppfarir.
Þegnum Fjalla þulin Ljód,
þanninn falla skulu hér.

---

# Tíu plágur Egyptalands.

Egyptanna uppteiknast,
átta reidi=sløg og tvenn.
Blá=vøtn øll í blód snúast,
beyskt=ýldist hvør lækurinn.
Illar pøddur úþreingjast,
allann lýd og konúnginn.
Moldar=lúsum mor=qveikjast,
menn og dýr vid aftøkin.
Svartir ormar sam=þyrpast,
svelgja og vída matvælin.
Drep=sótt ædir dálegast,
deydir hjarda frumburdinn.
Eldíngar med hagli hast,
helslá bædi fé og menn.
Bruna kaunin holdid hvast,
hrísa, nær sem glód ausin.
Eingisprettur fánga fast,
flesta landsins ávøxtinn.

Himin ljósin heidmyrkvast,
hvergi sást um dægur þrenn.
Frumgétningar foreydast,
fannst ei nockut ódrepinn.
Loksins rauda rán adbrast,
rauk þar allt í hel=køsin.

## Marju tal.

Maria systir Móisis hin frída,
mjøg vel kunni ad spá.
María Drottins módir, allra lýda,
mestann heidur þá.
Maríu svipti Magdalenu qvida,
mildin Jesú há.
María systir Marthæ smurning þída,
mundi Kristó fá.
María qvinna Cleóphæ nam bída,
krossi Drottins hjá.
María Jacobs módir þar samtída,
mædd hans útfør sá.
María Jóhanns módir gésti blída,
medtók æru ká.
Maríu (Hebers mál) er beyst ad þýda,
mørg þad nafnid á.

# Um óstødugleika þessa lífs, og þess armædu frelsi.



Svo linna tregar sem tídir, mannsins æfi hér í heim, hnígur fast ad merkjum þeim, allir dagar eiga qvøld um sídir.

Leit eg standa lilju netta, líka rós hjá*) henni spretta, rúdu, stør og reirinn létta, renna upp annars vegar. Svo linna tregar. Skein þá prýdin rósar rétta, reyr=staung=inni fegur øld. Allir dagar eiga qvøld. Loks ad jøfnu þad og þetta, þryktu vetrar hrídir. Allir dagar eiga qvøld um sídir.

2. Sú rann eingin sól í heidi, sældar skyn ei eptir leidi, raka nótt af unnar eydi, eymir kjælu þegar. S. l. t. Æsku jafnt og elli=skeidi, yfirdynja sømu gjøld. A. d. e. q. Forlaganna roskin reidi, rétt og bogid nídir. A. d. e. q. u. s.

3. Rædu spakur sín forsjálum, Sýrach þannig hegdar málum: einginn sæll í heimi hálum, heiti, fyrr enn þegar. S. l. t. Ad Drottins mýskun dæmir sálum, dægur lokin harma køld. A. d. e. q. Heita má þar

*) af.

skipt á skálum, skúrir sól afhýdir. A. d. e. q. u. s.

4. Eins og þreittum hvíldin hagar, huggun þeim er sorgin agar, svølun mæddum lindin lagar, lifnar kjæti þegar. S. l. t. Hrakid flei ad høfnum slagar, hvar ei skynur aldan køld. A. d. e. q. Gleyma svo því gledina bagar, Guds útvaldir lýdir. A. d. e. q. u. s.

5. Þeir sem hér á eymdar árum, einatt sádu nidur í tárum, skulu dýrdar kransi klárum, krýndir fagna þegar. S. l. t. Bindini, qvitt af synda sárum, sín utgengin framber øld. A. d. e. q. Skip ei leingur skékst á bárum, skína fegri tídir. A. d. e. q. u. s.

6. Sem af økrum sveimi ljómi, saingva møkum bregdi hljómi, veist røku vatna hjómi, vonum skyndilegar. S. l. t. Eydist skrull æsidrómi, eins og sprækud húsa tjøld. A. d. e. q. Lúdum vøk ad lausnar dómi, lidnar boda tídir. A. d. e. q. u. s.

7. Þar til hlackar hverju sinni, hjartad mitt í verøldinni, ad eg hulinn féssjód finni, á fridarins akri þegar, lífs l. t. Sætt mun skína sálu minni, sólar fyrirheitin øld, þá a. d. e. q. Hold í jardar hvílu finni, harmar ei né qvídir. A. d. e. q. u. s.

8. Nær mig ømun synda sveitir, sámvitskunnar dómur þreitir, heimur stygð og hneixlan veitir, hugsa eg annars vegar, senn l. t. Hverju sem minn hug áreitir, hvør eg mót þann vonar skjøld: A. d. e. q. Guð í føgnuð grát umbreitir, géfur sælli tíðir. A. d. e. q. u. s.

9. Sjúkdóms ef mig særir pína, søknuður eptir vini mína, edur gipta fjárins fína, fallin utan vegar. S. l. t. Ber eg von í brjósti hlýna, bætast munu þau vanhøld. A. d. e. q. Réttist bogin lucku lína, løksins þegar stríðir, a. d. e. q. u s.

10. Eingin skal því andar mæða, eingin þørfnun heimsins gjæða, eingin kraptur hug minn hræða, holds ei dvíni þegar, Tíðir sem tvegar. Drottins Jesú dreirinn æða, depsði svo mín glæpa vøld, að þeir dagar eige qvøld; enn í staðinn ysirblæða, allar heilla tíðir, allir dagar eilíflega blíðir.

---

# Til S. J. D.

Alphábetið uppteilnað, úngri veiganipt eg sel, bið frumgétin brúðir það, beri sig að læra vel.

2. Mikils vísir mjór er tídt, menta safnid líkt um fer, þad sem grísir námu nýtt, náttúrunni tamast er.

3. Gømlum hesti gyldir vardt, gáng ad kénna, þad er mín trú, því er best ad úngum art, ørugg tamin verdi sú.

4. Menta rótin mjøg er beisk, midlar sætu blómi þó, þeim er bótin þeigi treisk, þeirrar saft er vel inndró.

5. Lysting væra legdu því, ljúfan góda! støfun á, byrtu skjæra bókum í, barna gullid finna má.

6. Med støkunum máls af reir, mig, (ef skyldan gjætir sín), heilrædunum hreifa meir, hvetur dygd foreldra þín.

7. Fyrsta, besta og frægsta rád, finn eg vella sólin, þér, ótta mest og elsku dád, æ til Drottins þú geymir.

8. Hyggdu vel ad hann sjer allt, heyrir, dæmir, gjeldur laun, vondum selur kaupid kalt, kjefur gódum alla raun.

9. Trúdu því hann tryggur er, typtar vægur, elskar heitt, einginn mia megnar þér, medan hans er fylgi veitt.

10. Bid hann vilji blessa þig, byggja, stoda, varna þrá, misgjørd hylja, módurlig, mæddi og gladdri augun ljá.

11. Skøpun, myndan, fjørid fridt, fæd=
íng, sjón, heyrn, krapt og rád, hreinsun
synda og heilsu tídt, hans eilífri þacka náð.

12. Fóstur, hafinn heilla krans, hægd,
umsorgun, fridar=vist, og ótal gjafir allar
hans, en einna mest fyrir Jesúm Krist.

13. Honum fel þitt áform allt, eignir,
heidur, líf og sál, ad hans vel þig ordum haldt;
undir tæmda daudans skál.

14. Æsku=blómid ætti þitt, einnig hyllast
foreldra ráð, þad er sómi heldur enn hitt;
hefur líf og géfur náð.

15. Ætíð skyldir inna þeim, ást og heid=
ur Gudi nærst, fegri gyldum fórnar seim,
fráð er barna hlýdni tærst.

16. Þol øgunar, þackláti, þjónkan yd=
in, hæf og trú, skarta mun og skyldunni,
skaparans bod ef rækir þú.

17. Bid þeim allrar blessunar, bresti þeirra
kjær umlíd, hæfi snjallrar hagsældar, heyrir
þetta fyrr og síd.

18. Vendu þig ad vera stillt, vid offkjæti
sídur tøm, fridar = stigum fjær ei villt, fá=
skiptin og ydjusøm.

19. Verka = dygg og vidmóts hír, vinum
trygg ad jøfnudi, fáum styggð en reidi rír,
rádin bygg á framsýni.

20. Elska frid, en eyru gef, aldrei þeim er hylla róg, þeirra nidur sládu slef, slítir aka fjandans plóg.

21. Hvar sem betur haga má, heldur skyldir koma fram, ecki metur æran há, illqvittinna þackar vamm.

22. Láttu geymt þad leyna ber, legg í minni velgjørníng, hafdu gleymt úr huga þér, hitt sem þecktir ávirdíng.

23. Vert ei beckin heldur holl, hæfilát og gódvikin, drag þig ecki í drengja soll, né dryckju-manna selskapinn.

24. Sýndu milda medaumkun, munad-lausum hvar þú kannt, hjálpar-vild og hug-svølun, hygg þad vísann sælu-pant.

25. Ef þú gledur, gjædskan mín, Guds fátæklann vesæling, sídar gædi svalar þín, sjálfur Gud í mótlæting.

26. Vr til móds ei ødrum bæg, agta hvern vid skipta ber, hugul, gódsøm, hír, einlæg, hylli granna festu þér.

27. Vertu um of ei gróda gjørn, gáfur Drottins þó vel hyrd, heyrnar lof ei legg á børn, lædir heimskan þótta vird.

28. Hvar ed', nær og hverja sem, hitta kunnir þánka styggd, þolgæds æru þér vel tem, þad er blessud edla dygd.

29. Øllum skyldir unna góðs, øllum kjósa Drottinns náð, øll er snildin ættar blóðs, undir sliku falin og tjáð.

30. Uppá heimsins auð og prjál, ei þig reiða skyldir fast, það er eymsins ímind hál, edlisgjørn að foreydást.

31. Eins er trygðar=hafið hans, hjástoð øll og mannvirðíng, raunar bygð á rósum sands, reikar eins og hjól í kríng.

32. Himna gjæðin helsku því, heiløg, væn og tryggileg, allrar mæðu frelsi frí, fylla þau á bestann veg.

33. Þótt að høndum komi kjær, kjør, sem æru gylli sess, dauðans bøndum dregur nær, dúsan góða, minnstu þess.

34. Þinnar æsi þrýtur hlaup, þegar kannské varir minnst, sérhver hæfir síðar kaup, sem í dauða verður finnst.

35. Eptir liðið lífsins blóm, liggur eyk í bóli sín, forløg miðast fyrir dóm, freku munar sæld og pín.

36. Þessa minníng þér vel tem, því sú finnur Guði hjá, hærsta vinníng síðar, sem, sálu þinni gagna má.

37. Guð sem áður gaf þér líf, gjørði fyrr og innplantað, undir náðar æðstu hlíf, æfinlega geymi það.

38. Mentir snjallar þrói þér, þinn sem heidur auki ljóst, dygdir allar safni sér, sækan únga þér í brjóst.

39. Happa-skjær og hyggju-fróm, hag vinsælda nádu dug, mann-ords æru, byr og blóm, beini gjæfu þinnar flug.

40. Vídarst veri þitt forsvar, þrennur Gud um æfi-stig, óbænir og áligar, eingar láti snerta þig.

41. Fridar-gjædum fylli dád, fordi galla synd og pín, þitt í mædum, rétti rád, og raunir allar sikri þín.

42. Nær sem hér ad høndum rædst, holds og andar skildaginn, komi þér til hjálpar hærst, hver einn Jesú blód-dropinn.

43. Vid brúsandi heljar haf, hvar sem ber ad standir mædd, sálar grandi øllu af, í hans fadmi sértu klædd.

44. Gledi-dægur eilíf øll, eptir vægann lausnar-dóm, finndu næg í himna høll, Herrans þæga lilju-blóm.

45. Þundar vistir þar eg fel, þrotid hjærist ósska vín, fróma Systir, farðu vel, fylgi sigur nafni þín.

# Til G. J. D.

Furdu litid fræda qver, fyrstu bókar menta, skyckju nita skordin hér, skrád í flitir sendi eg þér.

2. Línu byrgdann leturs mó, lika þrycking handar, bid eg vyrdir betur þó, baugs enn hyrdir þenna dró.

3. Kaup ástil eg hringa hlín, herdtu þig ad læra, mentir vil eg þrifni þín, þess ei dylur beidni mín.

4. Þad og gledi ferska fær, fødur og módur þinni, hjartans medan vøk er vær, vertu gédi þeirra kjær.

5. Hæfir mildum, Herrann qvad, hlýdni foreldranna, reikna skyldu þína þad, þeirra vildum hneigast ad.

6. Mundu rádin mín ávallt, mun þá Drottinn bjarga, þeim á ládi þig adhallt, þær vid bádir una skallt.

7. Æ þinn Gud med trú og trygd, tilbidjandi sértu, sá føgnudur hafnar hrygd, há=blessud er þvílík dygd.

8. Legdu jafnan líf og ønd, ljúft um qvøld og morgna, í Jesú nafni hans á hønd, hreint svo kafni synda grønd.

9. Einnin vinnist vel og hægt, verkid hvert sem byrjar, hvad sem finnur hug óþægt, hafdu í sinni bygda nægt.

10. Vertu fróm og vel sidud, vør og mild í rædum, allann sóma géldur Gud, gjæt hans dóma réttsinnud.

11. Þar um ætíd þenkja skallt, þegar unir glaumi, holdsins kjæti, hér med allt, heims dálæti stendur vallt.

12. Adgjæt þú ad allir menn, eru í dauds-ans skugga, aumleg búast umskiptin, opt vid snúin forløgin.

13. Þad er mín gáta þels um far, þegar Drottinn kémur, margur gráta muni þar, mest er káta sinnid bar.

14. Hinna vaungum, veit eg, hann, víst afþerrar tárin, hverra laungum heims í rann, harma saungum una vann.

15. Heimsins glaum ei þrái því, þitt hid únga hjarta, soddan draumur svipar frí, sorgar strauminn flestum í.

16. Audnu fremur undir lagt, ydug stilling gétur, þar af kémur æra og agt, ef þér semur sinnid spakt.

17. Vøndud láttu verkin þín, varast ó-nenningu, ydnis háttur eign er fín, æru þáttur sá vel skín.

18. Holla trygð og hlíðni veit, hús fyr- eldrum þínum, þol-geðs dygðar þú æ neit, þau til skygðar ecki reit.

19. Hygg vel á þau heitin fín, heillir munt uppskéra, dygð ef sáir, dúfan mín, Drottinn gáir verka þín.

20. Bráðu finni ver þig vel, vert í orðum gjætin, ráði svinnu reiði fel, ræðu minna skapi sel.

21. Hirðtu sjaldan hyggju grunn, hálf- kénðum að opna, tíðu skvaldri tæpast unn, tem þér aldrei lausann munn.

22. Hverki ræður, lag né lyst, legg við káta drengi, þeirra slæðum þú verjist, þinn á hæðum Guð óttist.

23. Frómann, hygginn, þecktann þér, þú skalt velja að ráðum, þeink, sá tryggur öðr- um er, eins má dyggur verða mér.

24. Jafnkít aldrei illhrifsíng, ert ei börn til reiði, vondsku-baldinn vitfyrríng, vantar sjaldan formælíng.

25. Þeim er minna þáði lán, þér, af Drottins hendi, gjæt, að innir ei forsmán, utan finnir dygða rán.

26. Þánn ei hyrðir sjálfum sér, sæmð og æru kjósa, lítils virðann láttu þér, last í kyrðum þó geymir.

27. Minnst án sakar, mía skallt, munad=arleysíngjunum, sér þad makar meinid kaldt, mørgum bakar yndid hallt.

28. Harma = sjúkum hugsvølun, hæfdu, ljúfan góda! Drottins mjúka medaumkun, mun þér lúka sætt umbun.

29. Aumann hlæir aldrei þú; uppá Drott=ins nádin, vef þig æ med von og trú, vel í haginn fyrir þig bú.

30. Hrygd er flekkud hérvistin, haldtu þig ad Drottni, stóladu ekki mjøg á menn, marg=ann blekkir verøldin.

31. Sett vid eyminn sorgar ert, sidur festann láttu, þinn vid heiminn þánka bert, þíns ógleyminn dauda vert.

32. Hugleid sannann Drottins dóm, dylst ei vid, hann kémur, líkt sem annad lauf og hjóm, líf = stundanna fyki blóm.

33. Dagar þínir drífa hratt, dregur ódt ad merkjum, bedju sína byggir stadt, bjørkin fína þar hún datt.

34. Enn þar stundin helst er hál, hugar bofnu meingi, varastu blundinn vid heims tál, vertu hrundin mey forsjál.

35. Øll mun dafna dádin þín, dygg ef heims á foldu, rækir jafnan rádin mín, rød=uls hafnar ládin fín.

36. Þín munu svæfast synda gjøld; sem og unnum vara, lofid hæfa lífs um øld, lán og gjæfa þúsundføld.

37. Drottinn sá er øllu ann, æru = skarti þínu, hreki frá þér heims í rann, heilla = þrá og gledi bann.

38. Hverskyns gjæfu = gyrnd og þrótt, glærsta ment og heidur, dýr þér æfi dag sem nótt, dygdir hæfi sinnid rótt.

39. Hvad sem æru hefgar þín, heimsins undir sólu, Herrans næri høndin fín, hjá þér, kjæra dúfan mín.

40. Allar tídir unni þér, Englar, menn og sképnur, haudur, frídir himnarnir, hafs= ins prídi, vindarnir.

41. Lægirs = feldur, ljósin øll, loptid, jurt= ir, steinar, skúrir veldar, myrkur, mjøll, málmur, eldar, vatna = føll.

42. Mistur, heidi, heitt og kaldt, hæd, dýpt, eymur, kirra, fjørs um leidir audnu allt, yfir þig breidi, sprundid snjallt.

43. Gud á hædum gefi þér frid, gledi, nægd og yndi, fordi skjædum synda sid, sendi í mædum styrk og lid.

44. Vertu hér í vøku og blund, vafin Jesú ørmum, standi hver hans æda = und, opnud þér á dauda = stund.

45. Nær sem bændin, hvarma hjól, h saman = reira, laus við grændin, líſs á leiðiſt ændin fegri sól.

46. Allra gjæða fylling fróm, faðmi mín búsa, finndu bæði frelsis dóm, fr: hæða sigur blóm.

47. Prýtur versa vandað smíð, v mærðar gildi, línur þessar lær og hlíð, blessuð fyrr og síð.



## Til S. J. D.

Bænar ljóða vers óvænd, (verðug bæri), fosnirs glóða friðri strænd, fram bjóða góms af rænd.

2. Vantar qvæða vitsku lag, vil æskja þanninn: friðar gjæða hreppt hrundin klæða, nótt sem dag.

3. Yfir þér skíni einna mest, ástin og manna, öllum tíni auðnu brest, á þé gjæfan flest.

4. Dagana alla Drottinn minn, b á ærmum, sútar galla sefi þinn, sóla Kóngurinn.

5. Æðstur blessi ár og síð, öll þín

þinn sóma, viltir grunda víst að eymi, vonum fyrir dvín. Framsýnin fróma, sé fasteignin þín.

2. Líf á grønnum leikur þræði, leiðir mønnum brygðul gjæði, sveipað ønnum, sorg og mæði, sígur æ til dróma, f. þ. f. Yndis hrønnum byr þó blæði, ber að ángurs pín, f. f. f. f. þ.

3. Því er kíní laust að trúa, lucku máni kann sér snúa, hags með ráni, rétt í grúa, raups og hylli dóma, f. þ. f. Einatt spá=ný gjæfu gúa, gabbar vini sín, f. f. f. f. þ.

4. Hag þinn tryggja hreint ef vildir, hús ei byggja á sandi skyldir, heims við liggja grandi, gyldir, gígar niðinn tóma, f. þ. f. Viltu hyggja á hærri snildir, hlíddu ráðum mín, framsýnin f. f. f. þ.

5. Drottins ótta dugnað mestann, dag og nótt þér hafðu festann, vitsku gnótt og virðta bestann, veg það hyggnir róma, f. þ. f. Lucku þrótt og lofstýr hrestann, ljer sú gáfan sín, f. f. f. f.. þ.

6. Hvert þér mætir svanninn svinni, sorg eða kjæti í verøldinni, haldtu gjætið hug og sinni, Herrans viður dóma, f. þ. f. Løg hans ætíð legg í minni, ljósið af þeim skín, f. f. f. f. þ.

7. Þín skal vaka bænin blída, bid um sakar uppgjöf tída, allskyns blaka fríun frída, frid og andar blóma, s. þ. s. Talinn spaka teing hid þýda, traust á Jesú þín, F. f. s. f. þ.

8. Elska þá er elska dygdir, ad þeim gá er velur trygdir, vek ei þrá, en veid af styggdir, ven ei last á góma, s. þ. s. Brýxli hná, sem bann og lygdir, bist ad eingum tín, F. f. s. f. þ.

9. Heidur, ást og hlýdni svinna, hneigdu stárst til foreldra þinna, lát ei þjást ad þægja og inna, þeim gédrækni fróma, s. þ. s. Mest og dást í mædu ad hlinna, minnstu launin sín, F. f. s. f. þ.

10. Yfirsettum virding veitir, vinskap réttum aldrei breytir, sorgarmettum sist ad-hreitir, set þig ei til dóma, s. þ. s. Heilsu flettum hægdar leitir, hugnad aumum sýn, F. f. s. f. þ.

11. Gömlum eru gjarnan tjáir, Gud vill hærum kannské náir, þér hug kjærum þeirra sáir, þar sem dygdir ljóma, s. þ. s. Vorkun-sær, um lúa ei láir, lífs þó qveini sýn, F. f. s. f. þ.

12. Hóf og spörn á hverju tægi, haf, svo þörfn ei sídar bagi, þackargjörn þó þörf-

in agi, þygdu vátn sem rjóma, s. þ. s. Misleik hvern ei met sem dragi, mótgjørdunum tín, F. f. s. f. þ.

13. Þótt þú nædir þyggja slettu, þockafædi, styggd og glettu, þolinmædi þér æ settu, þenk til seinni dóma, s. þ. s. Senn þó rædir svari nettu, søk ei lengi brín, F. f. s. f. þ.

14. Heimsins illa øfug dæmi, upp ad fylla, þér ei sæmi, þó eins villa vítum flæmi, verk og tal hins fróma, s. þ. s. Vart adgrilla veit hinn slæmi, vel hvar dygdin skín, F. f. s. f. þ.

15. Sannleik reyn í fagna grúa, søkum bein til góds ad snúa, jafnann sein ad taka og trúa, tali sqvaldurs lóma, s. þ. s. Breskum leynir bragna og frúa, bót ef þøgn er sýn, F. f. s. f. þ.

16. Flýdu stjá vid falska og káta, felst ei þá er mikld státa, viktu frá þeim vanka láta, vols og késkni gróma, s. þ. s. Þessir fá sinn glaum ad gráta, gyrnst ei þeirra vín, F. f. s. f. þ.

17. Gjæfu spár af gódum þyggir, gudleg tár ei frá þér styggir, er þeim stár, ad undirliggir, enn purpura af Róma, s. þ. s. Lífs um ár þau ad þér tryggir, æ þeim hefudid krýn, F. f. s. f. þ.

18. Þokka snidug þinna vanda, þrísin, ydug, verkin handa, vika lidug, víls án anda, volgur lát ei hljóma, s. þ. f. Hraks vid klidur hyrd ei standa, hend ei møk vid svín, F. f. s. f. þ.

19. Varast þú frá blygd ad buga, baki snú vid þeim ei duga, ferskum bú ad frómleiks huga, fis vyrdandi Moma, s. þ. s. Legg ei trú vid lausmáluga, limskum kjænsku sýn, F. f. s. f. þ.

20. Forsmá ei þá máttar minni, minnstu ad fleigja stoltu sinni, og burtsveia øfundinni, øllum gyrnstu sóma, byr, heill og blóma, lærdu ad deya lysting þinni, lífid fyrri enn dvín, F. f. s. f. þ.

21. Þitt hýd bjarta lítilæti, leidi skart á audnu sæti, minnis art og menta gjæti, mynd=adu líf til gróma, s. þ. s. Audmjúkt hjarta vánga væti, varmt í Guds augsýn, F. f. s. f. þ.

22. Kepptu haginn qvøld=stundanna, kjænt vid blæinn árgeislanna, senn ber daginn sól til hranna, setst ad himid gróma, s. þ. s. Magn=adu fræin mannkostanna, medan ljósid skín, F. f. s. f. þ.

23. Fødur rádin þyngdu þessi, þig svo dádin øblug hressi, Drottins nádin dýr inn=

presði, bygðir þér sem ljóma, sífeldt til sóma, heims á láði byggi, blessi, og brynji þig heillum sín, F. f. s. f. þ.

24. Jesú blóðið rósar rauða, ríkt þér þjóði frelsi nauða, leiði skjóði líkn ótrauða, lesta renni dróma, og sveipi þig sóma, brenyti flóði hins heiska dauða, í besta gleðinnar vín, F. f. s. f. þ.

25. Hærsti friður heilags Anda, haldist viður þilju banda, þrycki niður þjófsti og vanda, þreyti lyst hégóma, og seðji þig sóma, gjæðsku iður Guðs lifanda, geymi þig frá þín, F. f. s. f. þ.

26. Tær hólpinna trúar-glæðra, tárin þinna feðra og mæðra, niðja sinna auði æð-ra, yndis fundinn plóma, safni þér sóma, krapti og himna Kristí bræðra, klár í Guðs augsýn, F. f. s. f. þ.

27. Farsældanna finndu gengi, friðsælð-anna kjörin lengi, vinsældanna val hjá meingi, vørn englanna fróma, sigur og sóma, lof-sældanna fórn og fengi, fegri enn sól í Rín, F. f. s. f.. þ.

28. Mín svo ræða myndug standi, minn-is klæða hrind árnandi, lífsins hæða lind ylmandi, líf þitt reisi blóma og sannhelgra

fóma, ad þér hlædi á yndis landi, Elskn dótt- ir mín! Framsýnin fróma, sé fasteignin þín.

### Nafn Studull.

Sals ró : Sin ey : Su ál : S,
I he : : Im : : . I grandfr : I,
Gódfræ : G, rikm : G, ráðhø : G,
Rati æ : R : u kjø : R væ : R,
Inndrag I ð : Igda ht : I,
Dádval : Dur aa : Ds há : D,
Uns ró Um rød : Uls br : U,
Rína : : R be : R sú ei þve : R,

---

## Sumar gjøf.

Sem á sædis bólin, Sumarid skín, um lifs og luku hjólin, leiptri þín, sæl réttlætis sólin, systir kjæra mín.

2. Hresdist æ þinn hagur, heims á grund, æru og yndis fagur, alla stund, rími ranna slagur, riki dygd í lund.

3. Eptir æfi tídir, allar hér, dýrdar dagar blídir, dilli þér, þar sætt samfagna lýdir, og Sumarid aldrei þver.

---

# Sumar vísur.

Qviknar landa kjæti senn, kéfur drift á túnum, svalbrúgs andar sætir enn, sínum lypta brúnum.

2. Happa slagur hendir sveit, hastar nád innfljóti, bjarnar-dagur hendir reit, brosir ládin móti.

3. Vettrar qvöda vindur þraut, vidur glansar skógur, kjarna hlídar kind uppskaut, qvikur dansar plógur.

4. Af liljúnum elli brá, aldin falda ljósa, heid-geislunum hellir á, hlýrnis tjalda Rósa.

5. Vaka saungvar vída um reit, varmar hlýdir gróa, bakar vaungum blídan heit, barmar fridir hóa.

6. Sem ad hasti sjónar æd, sett ad skíra geingi, fagna rastir, frón og hæd, fuglar, dýr og meingi.

7. Kulda neydar hvellur dó, kjör þau aptur seldi, Guds vagnleidar fellur fró, feiti-saft um veldi.

8. Hans vidnærir handar skjól, happa fríar þrotum, allt hvad hrærir andar ból, undir skýa lotum.

9. Hann oss náða hreidur lér, hann vorn galla bætir, honum ráðast heidur ber, hann oss alla kjætir.

---

Sumarið þegar setur blídt, sólar undir faldi, eptirá með sitt eðlið strídt, andar veturinn kaldi.

2. Felur húm hið fagra ljós, frostið hitann erfir, væn af dupti verdur rós, vindur logni hverfir.

3. Lýdum þegar lætur dátt, luckn byrinn mildi, sínum hug í sorgar átt, sérhver renna skyldi.

---

## Vítaflagur.

Hitur skíða þundar blær, þagnar-dals af heiði, máls til hlýða, mjøg óvær, mystri víða fyrir slær.

2. Undirbúast hærum heims, háskasamar tídir, vidur grúa klækja keims, kénnir lúa sorgar eyms.

3. Ollu standi leidir last, lucku tjón og mædi, kjærleiks andi kólnar fast, kíf í landi margfaldast.

4. Illskan rama brist um brá, brjóst og túngur manna, hvør vill ama ødrum tjá, eingann sama gyrnast á.

5. Sundurlyndi sældar mest, sjálfs elskunnar víti, upp sú kindir allann brest, eins og vindi bál æsist.

6. Kann ei líða kul á mót, kjør=vyrdíngu sinni, lætur svída hefndar hót, hvar sem þída fann ei rót.

7. Fyrir ómæta søk er sátt, svipt á auga=bragdi, forsug þræta fellur dátt, fridinn græta þykir smátt.

8. Mannskap halda meingjørn þý, mýslugunna ad sigta, sjálfs Ulfalda svelgja frí, finnid kalda lýsir því.

9. Þyckj bryggd á þocka sid, þræll fyrir gódum manni; eina slygd er áhlaupid, eingra dygda vidgétid.

10. Hans útmálad heyrist brot, hætt sem orka skyldi, undir hálast æru rot, edur sálar heilsu þrot.

11. Agg og þras um eyr sem gull, ydka menn af létta, gifra, já, um geitar ull, gammi hjá er þyckjan full.

12. Allshattad til ólempis, æglyndir sér finna, víta hvad sem væri slis, veifa nad, ef bærist sis.

13. Hendi frómann feil um sinn, framar vísu rádi, það skal hljóma út og inn, eyðs með dóma skak=viðinn.

14. Hann heyrða hvar sem stár, heyrnar vídt um færi, dygð hans vyrða hunds vid hár, hitt án kyrða lastið gár.

15. Makar þetta mannorðs stíng, mørgum ver enn skyldi, gremur þetta géðsæring, géfur slétta leiðrétting.

16. Málið svinnu mjúkt og hægt, mót sér líku veitir, sqvaldurs sinnu skapið ægt, skjaldan finnur svar einlægt.

17. Svoddan vyða sannar þjóð, Salómonis ræða; orðið strída eyfir hnjóð, andsvars blíða fordar móð.

18. Svo sem neistann magna má, með adblæstri hørdum, líkt útkreystann lýðir fá, litt ef geystann hrækt er á.

19. Þínum munni þetta tvennt, þó í raun afkémur, sáttum unnir sú er ment, samvitskunni betur hent.

20. Hvað þú vildir hlotið fá, hillirikt af ødrum, sama skyldir sjálfur tjá, svoddann snildir hepta þrá.

21. Þú villt hróður heyra þinn, hafðu slíkt við aðra, veikum bróður vægðir inn, vef í tjóður lastyrðin.

22. Þér ef sánkar þyckju, løst, þinn út-hrópi lýdir, láttu ei vánka kífs vid køst, kylltu þánka bríxlin høst.

23. Þinnar æru, þú ef kís, þøck og virdt af meingi, hinna skjærum heidri lýs, hylli-sær um þeirra prís.

24. Qvis, álýgi, kals og bann, kjósa viltu eigi, varast því ad vondskap þann, vid-ur drýgir nockurn mann.

25. Kífs ef fólin kunna þér, kynda mód, svo vakni, reynslu skólinn, reidi-hver, renni ei sólin bjørt undir.

26. Stillir ama, styrkir ró, stødug-lyndid hreina, qvillasama hefnd afhjó, hylli-frama laungum bjó.

27. Þolinmædi þjáir stygd, þolinmædi vinnur, þolinmædi þróar dygd, þolinmædi sóar hrygd.

28. Þolinmódur øblgum er, ágjætari fundinn, værni hródur vinnur fér, vígs enn gódur kappi hver.

29. Forprís Davíd fékk af því, fordum tíd, er þoldi, helju krafid, hefnda frí, heiptar skrafid Simei.

30. Móses Júda fólsku far, fast og tíd-um reindi, mindin prúda manngjæfdar, mill-um slúda seglin bar.

31. Jósephs dygda, fræd er slug, framm þó seldur væri, undir hrygda beyskann bug, brá ei trygda føstum hug.

32. Jobs er tídum hrósad hátt, helgri þolinmædi, gráts í hrídum svar med sátt, svanna strídum gaf hógiátt.

33. Tobías eyrdi fridnum fast, fyrdtur vina geingi, sorgum dreyrdi súrt adkast, sitt þó heyrdi, gaf ei last.

34. Mordbrýrlanna reinda røgg, Raguels dóttir fróma, sist þó vann ad þessa høgg, heldur anna tára døgg.

35. Svoddan skyldu dæmin dýr, dróttum sáttir ørfa, grand ad tryldu gédi snúir, gjæfan mildu fyrir býr.

36. Forsi mætti flestu sá, særst til ama gjørdi, þolgjeds hætti þó ei brá, þvílíks ætti sérhvørr gá.

37. Líka bodid hefur hann, hógværd af sér læra, þeim er vodi ei því ann, allir skodi speigil þann.

38. Hvad skal þrátta hér um gnótt, heimsins audnu feingis, allir hátta førum skjótt, feigdar sátta ber ad nótt.

39. Skyldu geya skjædir spart, skjótt kann ómur bjalla, þessum fleya þyt ávart: Þú skallt deya, bú þig snart.

40. Er þá qveikur æfinnar, útslockinn að bragði, svo sem reykur rími skar, rotnar bleikur nárinn þar.

41. Þeir sem stunda frið á fold, friðarlaunum hlýta, friðar-lunda frótt í mold, friðað blundar þeirra hold.

42. Öllu grandi friðar frá, frelsaðir án enda, friðar-landi fögru á, friðar andlit Guðs þeir sjá.

43. Látum friðar ráð og róm, ríkja vor á milli, höldum friðar dýrann dóm, drígjum síða skiptin fróm.

44. Blygð, hógværi, bæn og trú, blíðleik, þolinmæði, elskum, kjæru Herrans hjú, hæðst er æru giftan sú.

45. Verum eigi vansáttir, vorn um lítinn tíma, gráts þó vegi gaungum hér, glöðum vegi senn að ber.

46. Allt er stríðið úti þá, ei sem verið hefði, drígja tíðir yndis á, ama hríðir fjærri stá.

47. Verum, góðir bræður! því, byrði hver með öðrum, þeigi hljóðir þels um bý, þolinmóðir kala frí.

48. Sár þó mæti sorgin hér, sannlega verðugt eigi, það mótlæti þeinki hver, þeirrar kjæti er eptir fer.

49. Gud oss øllum gefi rád, grid og frid ad halda, vægi gøllum, verki dád, verji følkum, styrki rád.

50. Synda grómid endi allt, andláts tómid vidur, leggi í dómi lid óvalt, lof hans hljómi þúsundfaldt.

---

## Hagrauna slagur,

kalladur

# Pagnar mál.

Er líta sýnist til óstda sumra þá hann var qvedinn, 1728.

---

Þar um gétur Pagnar mál, þrátt í gédi mínu, velmagt øll og veraldar prjál, velltir blómi sínu.

2. Vinsæld, audur, vald og magt, vitska, lán og hreysti, lífsins fegurd, æra og allt, útkulnar sem neisti.

3. Hvad er verøld, hennar glis, hefd og art, sem be dist? reykur, bóla, funi, fis, fellur, hjadnar, eydist.

4. Lán er best ad lykja sig, litlum undir feldi, heimsins prýdi hégómlig, háttar senn í eldi.

5. Öll náttúran er ad sjá, ellimørkum hladin, vindar, haudur, vøtn og lá, votta sinn skapnadinn.

6. Ísar hlædast yfir mold, eydist bjargar fengur, bylgjur ada, fyrnist fold, flest til þurda geingur.

7. Eldar brenna grjót og grund, grasid jardar kylur, sképnur kénna feigdar fund, fargar húsum bilur.

8. Vída skridur vinna tjón, vegu forbjarfandi,, vatna - ridur fergja frón, føstum leyr og sandi.

9. Grædir ódum gremur sig, grandi skipa veldur, beinir þjódum bana-stig, bygdin skada géldur.

10. Þessu framar sækir sveit, sjáfar-abla skortur, fyrir þad sama fæst um reit, fordi matar kortur.

11. Veidi farga van-gjæstir, vindar bylgjum róta, sultur marga sundurskér, sældar vistir þrjóta.

12. Þad sem fordum þótti múr, þessu fødurlandi, happa-skordum hallast úr, heill þó fridar standi.

13. Umbreyting er ordin mest, atork-unnar líka, fátæklingar finna brest, fatar nockud ríka.

14. Þéttir mædur þó sumpart, þegna fædu máti, armur klædist og í skart, ecki rædur státi.

15. Brastar þjódin barna rík, braudS er gródinn seldur, hver amlódinn fágar slík, fast í módinn heldur.

16. Besur klútum fálka frón, fyrdtur silka mørkum, hnappa jútur hagS vid tjón, hoppar út á jørkum.

17. Reinir hortug rædu gaung, rétt í gorki smitar, ad þó skorti fædu faung, føtin fortulitar.

18. Snaudu búi bjargar ei, børn og hjú-in sveltir, naumast kúa hyrdir hey, hjørd um þúu veltir.

19. Skulda seigur skipti veill, skémmir leigumála: til øreigu hrakar heill, happa-feigum gála.

20. Sumir fetta sig um of, sølu beita størfum, út um sveitir kaupa krof, kosti neita þørfum.

21. Hafa réttann hinda sid, hacka mett-ir fantar, en sem þetta er uppsólgid, allt hid létta vantar.

22. Hyrduleysi hér og þar, hinum geisir voda, valla meisi viddbjargar, vill í hreysi stoda.

23. Beitir eingi, tredur tún, trássa=fengainn kaudi, sefur leingi hann og hún, hyrdir enginn saudi.

24. Qvík=fénadur missir máls, med er þad í gátum, byckjur ladi bæ til hálss, baulur vadi í sátum.

25. Púsinn snaudi þetta veit, þykir aud ei saka, hímir kaudi hvad sem leit, hans bú=naudir maka.

26. Feigir hædi føt og skó, flest armæd=an lúdi, gésur nædi gørpum þó, gisinn klæda búdi.

27. Ambod fatar adgjørdir, ull og mat=ur fargast, hvad sem klátar ónítt er, aldrei gat vidbjargast.

28. Heyin skadar, hætt sem dý, húss má vada bleytu, þanninn badar aulinn í, óþrisn=adar veitu.

29. Børnum verdur sama ad søk, sóma skérdir leingur, þau á herdum bera bløk, bann ad ersdum geingur.

30. Vinnu=hjúa vandrædin, vara nú ei minna, sum ótrú og sérplægin, søsn í bú grynna.

31. Hundraðs kaupið heimtar fá, hadd-ar kaupi veldur, þyggur staupið ofan á, allt í raupi geldur.

32. Er í-byggur augna þjón, eins og trygg-ur væri, en ódyggur undan sjón, ef sér hygg-ur færi.

33. Vanar tíðum verk = efnin, viðmáls blíðu hróið, hvinnsku níðir hagleik sinn; hvergi síður tóið.

34. Vinnugripum veitarans, véla ripill nær: hinum skipun-húsbóndans, hvergi svipa nær.

35. Ársins klórar eitt umfar, eysir bjór á mundum, sefur, slórir, hér og hvar, hefur óra stundum.

36. Vanur rápi, vángann klær, víls í tápi slíngur, kjaptar, glápir, hvimar, hlær, hönd í kápu stíngur.

37. Því sem beiða bóndinn vann, buld-ur eyðir hinna, svo það neyðist sjálfur hann, svakagreiður vinna.

38. Vitur eigi þola þó, þessi grey af neinum, knesa reigja, Karl minn ó! kombu (segja) reynum!

39. Ei má vita ockar hver, öðrum bita gefur, eg tek slitið út hjá þér; en þú kritið hefur.

40. Fyrir kracka þína og þig, þó eg skacka bídi, eingu þackar, ætíd mig, eins og racka nídir.

41. Þá eg ræ um rastirnar, ríd og plægi haudur, aldrei vægir þú mér þar, þó eg lægi daudur.

42. Illa fer ef þursa þræll, þinn, (sem er af mønnum), skuli eg vera; sértu sæll! segi eg þér upp ønnum.

43. Upp í hári herra síns, hædinn bári stendur: út svo gár í ædi svíns, eins og Kári brenndur.

44. Þannig haga sumir sér, sídur aga teptir; þernur slaga, því er ver! þeim ódragar eptir.

45. Frestar víma verkum á, vinnu-tíma hneita, þá þær híma, kúra, kjá, qveda, slíma, neyta.

46. Málum teingja marglætid, mundir eingja ad kolli, setur leingja, lystar vid, leik í dreingja solli.

47. Eptirsjón ef ørugg hver, ødrum þjóna af létta, víta hjón, en vinna sér, verka-tjón ár étta.

48. Sumar dækjur feigja flest, fata-brækju safna, sokka-stækju sinna mest, sem ódrækjur drafna.

49. Fyrna lángann festa dúr, fýlu kráng-ann bítur, leppfur hánga lærfum úr, lukt af ánga pítur.

50. Þó kaup-gjaldið þægt sé veitt, þeim að haldi kémur, sem það aldrei nefnist neitt, nudda, malda fremur.

51. Hinna spjátur er við of, ecki mátann hyrda, sér í státi síða-kof, sinnis-kátar virda.

52. Búra-píkur berast á, beint við ríkis frúna, vaðmáls flíkt er virdta smá, vorðin slíkum núna.

53. Stífinn teigja slíku-fald, stórann speigil viður, klæðis-treyur kosta gjald, klútar eigi miður.

54. Léreps taka lindum þær, lenda-þak að skorða, frunsur blaka foldum nær, flest er makað borða.

55. Sveipa strundum silkin þrjú, svo við grundir blánkar, hátsinn, mundir, heilabú, hvað sem undir vánkar.

56. Naddar-gaungin reyra þétt, róm og saungin tæmir, blóð í vaungum blánar slétt, barka þraungin ræmir.

57. Hendur breiðast hálf-ermum, hettir veiðar prúnka, gotann skreyða glit-feldum, gyrnast veiða júnka.

58. Þegar brúdar-beckinn á, búníngs-prúdar slacka, til sambúdar taka þá, tötra-lúdann blacka.

59. Sídan geysa í búskángs hopp, byrja reysu kjæra, trog, dall, eysil, ask né Kopp, ecki í hreysid færa.

60. Bodir, dínur, vantar skjód, vistir fínar líka, skuldir hrína, skrækir jód, skortir lín á kríka.

61. Flest áhjærir þörfin þá, þykir ærid stúra, bóndinn, mær og börnin á, bjálfa gjæru kúra.

62. Svona státid sumra fer, sæld í gráti brynna, vissa spiáturs vísum er, verdt ad láta minna.

63. Búss til safna bera sig, ad bjørg, og hafna trássi; en ad drafna í óþrifnad, edur kafna í stássi.

64. Þetta og annad því um líkt, (þó med sann ad heyra), lystur þann á lánid ríkt, lesa kann eg fleyra.

65. Margskyns tjón í allri ætt, undir krónu Dana, Ísa-fróni hafir hætt, hofs er nón á rana.

66. Vidur mesta vanbrúkun, vín er verst ad landi, færir versta fordjörfun, fer sem pest eydandi.

67. Mørgum grickja mokum því, máta skick af=hrekur, sú ofdryckja sem um bý, sveit=um þryckja tekur.

68. Veikir sinni verkar sjón, vitsku hlinn=ir banni, deydir minni, deyfir sjón, dreckir innra manni.

69. Margra láni móti slær, mørgu ráni hladinn, margur dánumadurinn fær, marga smán í stadinn.

70. Prestum hallar dryckju dá, dómarar falla nærri, bædur lalla eptirá, ýmsir bralla smærri.

71. Önnur færist óska jurt, ísa kjær ad grundum, margann ærir búda burt, drepur nær á stundum.

72. Eins og beit í almenníng, ufla reit=um krefur, Tóbak heitir þetta þíng, þúng=ar smeitir géfur.

73. Fýsn úr ædi fær til þess, funa sæd=is margur, brennir, snædir, bridur hress, blautt sem fædi vargur.

74. Tóbaks mok ef þrýtur þá, þeir med rokum flacka, buddur sloka, baukinn, já, burna=pokann hacka.

75. Leingi bid um litla stund, lífsins frid af=tekur, hremmir qvid, en hrakar blund, haminn rida skékur.

76. Vinnst þeim eingin verka ró, vils á deingja klidur, annars keingjast upp í hró, allir heingast nidur.

77. Þótt hinn armi (það eg sver) þiggi varma og fædi, Tóbaks jarmur í honum er, eins og harma qvædi.

78. Veitist ecki vil-gjøfin, voludum seckja hreifir, á hann bleckíng ædir senn, ángur þeckja leifir.

79. Fer og tætir sølu-sock, síldum fæti sprángar, edur í kjæti keyrir brock, kaupin lætur gánga.

80. Þar til skaudi skéllur fár, fulda-naudir vidur, fyrrtur braudi, soltinn, sár, sýpur daudans hvidur.

81. Hafni lífi heljar smeit, herdir kif ad bidja, eptirá drýfur út á sveit, egta víf og nidja.

82. Sjálfur eigi vill í vist, verka þreyíng hafa, heilsa, segir, mín er misst, má eg þegi grafa.

83. Sídan flýgur sveit í kríng, sér útlíg-ur brádir, þannig sígur þurfalíng, þar til hníga bádir.

84. Svóddan gjægur múga manns, mein-ar hægum sessi, er jóvægur innanlands, ord-inn fægur þessi.

85. Vinnu-bleydi, verka tál, vols í leidu svalli, skulda-neydir, nídsla, prjál, nægtum beidir halli.

86. Kargir steita qvid um geim, krissja reita sjódi, dreyra heitann drecka úr þeim, dygdin sveitir blódi.

87. Ollu standi øfgar hér, allur vandi nærist, ollu landi aptur fer, allt í blandi hrærist.

88. Ríkir plægja, reita, slá, rotnir æa, stúra, hinir slægja, þreita, þjá, þessir prægja, lúra.

89. Ymsir kúgast innbyrdis, einninn þrúga vinum, falsa, ljúga, mæla á mis, merginn sjúga úr hinum.

90. Þrjóta læt eg Þagnar mál, þar um sæta lengur, hyggnir bæti Hárs í skál, hvad til mæti gengur.

---

# Titla-tog.

Titlum tídir anna, telja má hid sanna, klénar virtir kanna, qvedjur fornaldanna, Vyrduglegum Herra hét, hátitill Konganna, Frómum Herra lýdur lét, lesinn Bisk-

upanna, Heidurlegum hvervetna, heilsan mundi Prófasta, Sæmilegum samtlega, Sóknar Hyrdaranna, Gódum bónda gafst qvedja, gildum Klausturhaldara, Ærusømum, Øfríngja, undir þingstólanna: nú er segg og svanna, sett um veldi fanna, titla manna, til spanna, Trónanna, margfaldt Edla, makar sedla, midlúngs høfdíngjanna, skautst Veledla á skjanna, Skildíngs Mar=kéttanna.

---

## Hof=prís letinnar.

Leti er landsins sæla, løg sér kann ad mæla, hvad sem þenkja og þvæla, þeir sig vid henni skjæla, merkilega møk framgá, myr ei tær né hæla, eins og Fýllinn stødug stár, stylli gjørn ad kræla, hvergi brýtur hnacka sinn, handa geymir vareygdin, barmurinn og bakhlutinn, best í kérru pæla; heldur sig vid hjúkólfinn, høfdíngjanna svæfillinn, málfrækinn, um matlaunin, magann vill ei tæla, hvar sem hverjir þræla, hún má rósir bæla, og sér dæla, nyt næla, sorgar eigi, munn þó megi, móthjalendur stæla, volsdug vørn harmqvæla, væri hún djøfla fæla.

## Aldar Sumbl.

Senn er öldin svella, sumbli farin ad hella, Abels, Babels, ella, um þad spáir gella, Júdæ trygd, og Heródis hrygd, hennar kostum vella, Thamars blygd, og Dalilæ dygd, daufunum samanskella: frægur Achans frómleiki, Pharaónis gudrækni, Hamans kyrrd og hæglæti, hvert vid annad smella, Zedechiæ sannleiks nægd, Sauls kjærleiki, Dóegs vægd, Cams einlægni, Chóre þægd, kynnis mót ei fella. Hvernig má þig hrella, hyrdir auds og pella, Nathans kvella, hún mella? forglansandi, fridansandi, finnur þú til spella? hyggdu samt, hin hvella, hennar skyttist rella.

## Illmálug Túnga.

Málug túnga mædir, margann vosi bræd-it, þjáir, þyrnum klædir, þegar hún spýr og ædir, hreckjum ann, en hrindir sann, hrid-ur skømm og lædir, opt á þann er ei til vann, illu marki slædir, sjaldan tefur svør-in grá, sakir vefur til og frá, keskinn hefur kjapt uppá, klípur, jagar, hædir, stundum gefur stirda spá, stilinn grefur dýpri þá, hvinum skefur hvoptinn blá, hrak-öskunum

flædir, glódir vítis glædis, grimmar yrjur skjædir, flest afgjædir, frid hrædir, svoddan munnur, þocka þunnur, þrif á jørd ei grædir, hrós né hylli þrædir, heiløg skrift þad rædir.

## Ofdryckju vidurstygd.

Brennivín brjálar minni, Brennivín hvessir tennur, Brennivín brixlum annar, Brennivín lösta kénnir, Brennivín barkar munninn, Brennivín heilsu grennir, Brennivín bruggar sløunum, brennandi qvala spennu.

2. Brennivíns dryckja bønnud, brýtur grid, heiptum flýtir, skadar vit, skérdir heidur, skúfar dygd, hræsni ljúfust, ergir lán, eignum fargar, ærir géd, losta nærir, deydir sál, djøfulinn gledur, Drottins réttindi spottar.

3. Augu manns øll aflagar, eyrnanna deyfist heyrnin, málid í munni þvælir, meinar styrkleika beinum; hokinn líkama hrekur, hnjótandi billtum ljótum, útbýar allt ágjæti, ølvadra: fari hún bølvud.

## Drambseminnar vidurstygd.

Djøfulsins dóttur svæfill, drambsemin gjørn á rambid, reynist ad réttu skini, ræckjandi vegu klækja; dýrd Guds dárlega skérdir,

dygd eydir, veldur styggdum, hatar mest líti-
læti, lán og atgjørsi smánar.

2. Vitsku med vélum beyskir, velgjørd sjálfhælni fjelgar, røksemd í reidi vekur, riptir sæmd alla typtun, valdi med hardúd heldur, hefnist á undirgéfni, illfús ef ordi hallar, ýskrar í mód helvítskum.

3. Tredur Guds tíu bodord, tapar ei hørdu skapi, vidur vandlæting prúda, vill ad sín athøfn gyllist; fátækann fyrirlítur, feitir sig á hans sveita, virdir þó einkis verdann, velur hans qvedju stélin.

4. Limanna lag afskræmir, lignandi vídt umskygnast, blindud nær, øfug. undin, augun í hvarma baugum, hnackinn úr skordum skéckist, skinnid á brúnum tvinnast, brestur í nasa buskum, barkinn úr hófi snarkar.

5. Hattinum hallar þóttinn, hendur ad risjum bendast, gapandi hnappa hjúpur, hrjóstugu þénar brjósti, krúsad hár kollinn glæsir, kálfarnir ódum skjálfa, brattur med bola-fettum, búkurinn vesæll hrúkir.

6. Bilæti fyrna fúlast, fjandans þar hygg eg standa, hvar sem dreissugur dári, dreka-jóds haminn skékur, fergist þar bøls án bjargar, bannid hvert ofan á annad, Andskotinn allrar vondsku, elgir upp hroka-belginn.

## Ágyrndarinnar vidurstygd.

Undir-rót allra synda, ágyrndin vörgug tjáist, dauda mein dygdar-ædis, djøfuls jód ecki gøfugt, greipileg manna gípa, glódheitast dreckur blódid, hund-grádug, hvar sem stendur, húngradann skékur púnginn.

2. Alla mann-æru trillir, óveilum kjærleik sóar, mútu-gjørn magnar prætur, meinsværi tídum reynist; forvitnis fremur størfin, sim er í augna-skymi, øfundar háttum hreifir, hnittileg þjófa stittan.

3. Eckjum í prældóm þryckir, þvíngar føduxleysíngja, voludum vægdir hylur, vinnudygd eingri finnir, þjónustu lakar launum, lætur ei skyldu mætast, géfins vill hvad eitt hafa, en hyrdir sér kaup þrí-virdid.

4. Rænir Gud rétti sínum, rembilát þar vid strembist, hún géti hvad ádynur, helgidags brotin fjelgad, sér til ábata eyrirs, ord Guds og kyrkjur fordast, leifir ei heldur hafi, hjúin sín møk af lúa.

5. Sig einatt sjálfa nagar, sorg vefur hyggju torgir, firdir fé-púkann værdum, fárlega stittir árin, sveipudu synda hjúpi, sálgar hans lífi í gálga, há-bølvud sídan hneigist, helvítis ofan í elfar.

Sé = gyrninnar fúla pest, (frid ef þjósa vildu), dryckjuskap og drambid vest, drengir hata skyldu.

Hallar heimi øllum, hallar trú ad falli, hallar aud og hylli, hallar orku snjallri, hallar forspá hollri, hallar dygda mjalla, hallar laganna heillum, hallar mann = dád allri.

2. Dómur Drottins kémur, Dóma teiknin hljóma, Dóms addynur tíminn, Dóm fær lasta = grómid, Dómarinn þegar dæmir, Dóm af skýum rómar, Dómur dreckir heimi, í Dóminum glédjast frómir.

3. Vakid, brædur, vøkum, vaki Jómfrúr spakar! vakid, tíminn veikist, vaki bænar = qvakid: vakid! værdin svíkur, vaki minníng saka, vakid, víst Guds ríkis, vakandi svo takid.

# Gaman Vísur.

## Dýra Mál.

Dýra = málin deild hér,
draga rædst eg í brag,
þau er þecki skráð.
Gremjar ossa grimmt Ljón,

grátt ílits og mjøg hátt,
østrar eptir bráð.
Fánlega Fýll hrýn,
ferfætlínga sú er,
mesta mynd á lád.
Orga Tígris dýr, dverg=
dynur = mál af þeim hvin,
æg og ódfús tjað.
Paurans ýfrug Panther,
pardýlótta kaurar,
flest í Meden frað.
Bessi murrar blæ= viss,
bjó honum vetrar svefn = ró,
mergjar þrek ómáð.
Hneggjar tídt med ham = røgg,
Hestur kjørinn reid best,
ør í orku dáð.
Slisinn rymur van = vís,
vinnu= treystur Asninn,
er hans eyrna gáð.
Kallar Kefur daun= dækk.
Drynur, beljar Naut= kyn,
harla rænu= hrjáð.
Saud = kynd jarmar gagn= góð.
Geit= fé kumra, þjóð veit,
mørvad, mjólkur= fjáð.
Vælir Ulfa gin gól,

Géltir Hundur sífellt,
urrar, geyr í gráð.
Katta mjálmar, kyn leidt.
Køllum rýta Svín øll.
Mjamtir Músin smáð,
Hún á mold er minnst ein,
mesta dýr þó hrædist,
þetta sultar sáð.
Hjæna (mér heyrn dró)
hjalað géti Manns tal,
og þeim helju háð.
Þennann flock og hóp hinn,
hvervetna sem fold ber,
nærir Drottins náð.
Sinni sképnu og ann,
er hans vilja sérhver,
jafnan hlýdin jáð.
Mjalla hrein, því minnst vill,
Mein-yrdt, høtud sé nein,
edur án þarfa þjáð.
Rýrna spá af fjár fórn,
føgur banna Guds løg,
hún var ragna ráð.

# Ar hvað þýdir.

Ar Mánudir eru tólf að þýda.
Ar er morgun-dags byrtingin fríða.

Ar er kölluð árferðisins blíða.
Ar er í vatna renni-flóðið stríða.
Ar er stafur einn í rúnum lýða.
Ar er sólar geisla morið tíða.
Ar er vængur ögurs-hallar síða.
Ar er blængur hvergémlisins víða.

## Alda heiti.

Sólar-Öld, Túngl-Öld, Sömlu-Öld gala.
Gull-Kyr-Silfur-Járn-Öld, vala.
Brenni-Öld heir eð höft um hjala.
Hauga-Öld fann ei dýrð uppsala.
Skégg-Öld átti skeið láng-dvala.
Skálm-Öld ýfði margann kala,
Vind-Öld hann og Varg-Öld ala.
Veröld ekur senn á hala.

## Skégg-Lof.

Skéggið manninn skreytir, Skéggið vángann feitir, Skéggið skýling veitir, Skéggið engann þreytir, Skéggið forðum skatnar í, Skégg-Öld báru teitir, Skégg öldúngum skartar því, Skéggið ríkkar sveitir, Skéggið Herrann skrautlegt bar, Skéggjaður Aron Prestur var, Skégg ei Samson skérði par, Skéggi Samúel skeytir. Skéggsins

æra skyrpti hnjóð, Skégg=heitíngar æfði þjóð; Skégg=laus Njáll í skimpi stóð, Skéggs eru kostir neytir: Skégginu bíð eg þú skeytir, Skéggjuðum sîst aðhreytir, Skégg ei reittir, Skéggs leitir, Skégg ef dára, Skégg þig gára, Skégg=broddanna þeytir, Skégginu skárst ei breitir, Skéggið þó sem heitir.

## Grettirs Afrek.

Grettir frægðum hjáði, flest ørløgin háði, geirs í hørðu gráði, grimmar vættir þjáði, braut upp haug og bar út fé, beint á Norvegs láði; illann draug þar ýfir=sté, og af honum Saxi náði, Þórir, Øgmund, Snækoll sneið, sneipti, rændi þó um leið, Tíu deyð, með sára seyð, Serkjum vann í bráði; djøful=æfann drauginn Glám, drap er gjørði bygða nám, Gnípu og Sám, í gljúfr=um blám, við Gýgja=foss afmáði; Sýð=bjørn helju váði, húð af Gísla táði, ramb hans hrjáði, raup áði, átta maki, súgs í svaki, sunds atgjørfið knáði, spjallhagur for=spáði, spektar fylldur ráði.

## Vertíðar Annáll 1740.

Fátt er nú til fróa, fer mig senn að óa,

kéll á kjúku mjóa, komin þykir Góa: nú í Sumars tekur til, tólftu viku ad snjóa, austan hrídar æsir bil, alla þekur móa; titra, streyma, tísta krár, tún og eingjar hylur snjár, skéljar brár, en skablinn hár, skéllur upp til þjóa: norpa rollur, nytin gár, nautin híma, lømbin klár, verdir fjár og veigagnár, vinda spjør og glóa, svellur sædid frjóa, syngur eingin Lóa, skolar Kjóa, skall Spóa, haudrid dunar, bylgjan brunar, bjørg og malir hóa, vaknid! Vinir sjóa, viljid þid ecki Róa?





# Vidbætir,

innihaldandi

# Gyllini Fadir vor og Bænir.

---

## Fadir vor! þú sem ert á himnum.

Fadir Drottins vors Jesú Kristí, Fadir Andanna, Fadir ljósanna, og Fadir yfir allt þad, sem børn kallast bædi á himni og jørdu.

## Helgist þitt nafn.

Helgist þitt ord, þín dýrd, þín verk, og allur þinn ösnudur. Helga þú oss í þínum ótta. Helga þú oss í þínum sannleika. Helga þú oss í kjærleikanum og øllu kristilegu framferdi. Helga þú sjálfann þig í oss, og helga þú oss í þér.

## Til komi þitt Ríki.

Ríki þinnar magtar; til ad undirþryckja djøfulinn, yfirbuga heiminn, en efla, skidja

og forsvara kristindóminn. Ríki þinnar náðar, til ydrunar syndugum, upplýsíngar fáfróðum, huggunar hreldum, hugarstyrkíngar freistuðum, vegstjórnar viltum, og viðurhalds réttlátum. Ríki þinnar dýrðar, þeim deyendu með eilífri vegsemd, eilífri unaðsemd, eilífri og algjörðri þekkíngu, eilífum heilagleika og eilífri fyllíngu allra gjæða.

## Verði þinn vilji, svo á jörðu, sem á himnum.

Verði vilji þíns hegníngar réttlætis á öllum djöflum, öllum villu-öndum, og öllum kristninnar ofsóknurum. Verði vilji þíns boðorða réttlætis, af öllum vorum kröptum elskaður, í öllum vorum lifernis háttum stundaður: öllum vorum frívilja, og allri mannlegri skickun æsinlega fyrirborinn og meir metinn. Verði þinn náðar vilji, í því að græta oss og gleðja, svipta og sæma, særa og græða. Verði hann á oss og hjá oss, í orðsins kénníngu, í syndarinnar þekkíngu, í holdsins deydíngu, í trúarinnar eblíngu, í himneskrar dýrðar hluttekníngu, og allra hluta viðréttíngu.

## Géf oss í dag, vort daglegt brauð.

Brauð þinna orða. Brauð þinna Sakramenta. Brauð kristilegs stjórnar valds. Brauð landsins gróða. Brauð lífsins ávaxtar og næríngar. Brauð skinseminnar. Brauð ærunnar, heilsunnar og friðarins.

## Og fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum.

Fyrirgef oss uppruna syndina og uppruna girndina. Fyrirgéf oss syndir vors úngdóms, aldurs og elli. Syndir vorrar fávitsku. Syndir vorrar þvermóðsku. Syndir vors bráðræðis. Syndir vors athugaleysis. Allar heimuglegar og opinberar orðanna, þánkanna og verkanna misgjörðir fyrirgéfðu oss, himneski Faðir! í Jesú nafni. Og gjör oss innbyrðis friðgjarna, þolinmóða, kjærleiksfulla, géðtryggva, og góðhjartaða.

## Og innleið oss ecki í freistni.

Reinslunnar freistíngu gjør þú oss heilnæma, svo vér ecki hnegjumst til metnaðar eður andvaraleysis í meðlætinu, heldur auð-

mýktar og þacklætis. Ecki til møglunar edur óþolgjædis í mótlætinu, heldur vonar og bidlyndis. Géf oss sigur á øllum djøfulsins freistíngum, holdsins freistíngum og heimsins freistíngum. Lát oss ecki á freistíngar tímanum frá þér falla. Heldur géf allri vorri freistíngu þann enda, vér fáum vel stadist. Freista þú einkis yfir megn fram, og lát oss aldrei freista þín.

## Heldur frelsa þú oss frá íllu.

Því þú ert alleina gódur. Frelsa þú oss frá djøfulsins íllsku og veraldarinnar vondsku. Frá íllum þaunkum og ásetníngi. Íllum athøfnum og íllri samvitsku. Sneid oss hjá íllvirkjanna krossi. Íllum og brádum dauda lát þú oss aldrei mæta. Heldur frelsa þú oss frá, øllu því íllu sem í oss býr; øllu því íllu sem oss ástrídir, og øllu því íllu sem vér forþénad høfum.

## Þvíad þitt er ríkid.

Odvínanlegt og øllu ædra.

## Þinn er mátturinn.

Endalaus og óþreitanlegur allt ad verka.

## Þín er dýrdin.

Heiløg, skýnandi, voldug, inndæl og óumbreytanleg, ad eilífu, Amen.

# Morgun Bæn.

Ó þú lifandi Guð og ljóssins Faðir! sem ljósið í fyrstu sköpun framkallaðir af myrkrunum, og enn nú yfirleiðir það sama ljós, mínum syndugum augum til gleði og upplísíngar. Blessaður sértu í ljósinu þinnar dýrðar, sem enganna skugga líður, blessuð sé þín friðar ásjóna sem yfir mig lýst hefur á þessari nóttu, blessuð veri sólin miskunar þinnar, sem mér upprennur alla morgna ferskt og fögur. Undir hennar morgun ljóma, lít eg nú upp til þín, mitt allra skjærasta andar ljós! og gjöri þér hjartans þackir fyrir þessarar nætur værð og hvíld, vernd og blessan. Eg hefi sofið á þínum armi, sem eitt brjóst-barn í kjöltu sinnar móður, þín vinstri hönd hefir leigið undir mínu höfði, og þín hægri hönd umfaðmað mig, þín tilsjón hefur varðveitt minn andarbrátt, og upplokið mínum augum; þar fyrir gleður sig minn andi, og mín túnga lýsir þinni lofgjörð. Heilagi Faðir! þú sem huggar mínar augnabrár með hýrri brún morgundagsins, láttu nú eirn anda sveima af þínu augliti, sem eirn værann morgun blæ, til minnar sálar, að hún viðurqveikist, og allur sá syndarinnar skuggi, sem yfir mig hefur upp-dreigist á liðinni nóttu hverfi niður í hafs-djúp þinnar

mynstkunar og Jesú blóds, svo eg nú med lýsandi deigi verdi eitt ljós í þér, og einn Andi med þér. Sami þinn vængur, sem var mitt hvílu tjald í svefninum, sé mín vagn-borg í vökunni; hil þú mig med þínum fjødrum, þú sem ert hulinn Gud, svo eg sé ecki nakinn fyrir neinum háska. Eg vil nú uppstanda til þeirrar dags vinnu, sem mér er áqvedin í víngardi þínum: rís þú upp eirnínn og leid mig ad verkinu, stjórna mér í verkinu, blessa mig í verkinu. Jesú Kristí þú sanna vín-tré, géf mér ad útsjúga vøkva þíns hjálprædis, svo eg finni lyst og þreyíng vid allt mér áqvardad andar og lífs erfidi; þinn vísdómur frædi mitt fáfrædi, þinn almáttur styrki minn vanmátt, þín gjædska innhelli sér í mitt sinni og sikri mitt ángrædi, auki mér þolinmædi, leidrétti mínar tilhneigíngar, hreinsi mínar hugrenníngar, hepti mínar samvitsku naudir, og efli mér allshátttud huggjædi, svo hennar mynd útgéfi sig í allri minni hegdan og umgeingni; ecki einasta í allri háttsemi vid minn náúnga, heldur og allri medhøndlan á þínum sképnum; ad svo sem þær eru mér speigill þinnar speki, maktar og gædsku, ad eg láti þær njóta þín, og elski þig svo í øllum hlutum, leiti þinnar dýrdar í øllum hlutum, og gjøri

þér þackir í øllum hlutum, og svo sem þú hef-
ur allar skepnur manninum í fyrstu til nytsemd-
ar skapad, og gefid honum vald yfir þeim øll-
um, svo kenn mér af því hinu sama ad þeckja
og vidurkénna þína makt og eignar-rétt yfir
mér, þad vald sem þú átt á því ad slá mig og
græda, græta og glédja, deyda og lífga. O!
minn trygd-reindasti Herra og Skapari! eg
má vidurkénnna med Jacob, ad minni sé eg
allri þeirri mysku, og øllum þeim sannleika
og trúfesti, sem þú hefur sýnt mér þínum um-
komulausum þénara, frá minni fyrstu fæding-
ar-tíd, inn til þessarar stundar, lífid og allt
gott hefurdu mér gefid, og þín myskun hefur
vardveitt minn andardrátt, svo þó allur minn
lífs-andi magnadi þinnar Majestatis vegsemd
og forpris, þá væri þad eitt hálfverk, þó all-
ar mínar blóds og fjørs ædar, sinar og taugar
gjørdust streingja myndir, í þinni lofgjørdar
hørpu, þá væru þær mikils til of dymmradd-
adar, til ad ístemma þinnar dýrdar rómsæld,
og herma þína hrósun og heidur sem bæri; þó
er mér, eins og øllu því sem andardrátt hefur,
skyldt ad lofa og vegsama þig eilíflega: ad elska
þig af øllu mínu hjarta, allri sálu, øllum krøpt-
um, og hugskoti, og svo, þíns bodords vegna,
náúnga minn sem sjálfann mig. Blessadu

nú, Drottinn! allt það eg skal gjøra þér til dýrðar, mér til nytsemdar og náúnga mínum til góða á þessum deigi, varðveittu minn anda ásamt sálunni og líkamanum, varðveittu mig fyrir mínu eigin holdi, heimsins hrekkvísi, og øllum djøfulsins áráusum og meinvættum: í einu orði, fyrir øllu því sem íllt er til lífs og sálar. Láttu þína ásjónu lýsa yfir mig. Ásjónu þinnar þekkíngar fyrir bjartleika sakir andlitis Jesú Kristi; ásjónu þíns fylgis og vara-tektar svo sem þú lýstir í elds og skýs stólpa fyrir Israel; ásjónu þinnar miskunar, hverja Petur þinn Postuli sá þar inni í Byskups stofunni forðum; ásjónu þinnar umsjónar, og hug hressandi meðaumkunar er lýsti yfir þína signuðu sorgbitnu móður. Sértu mér miskunsamur þá eg rasa, til að reisa mig á fætur, þá eg stend til að halda mér við, fyrir þá hægri hønðina þíns réttlætis, vertu mér miskunsamur í øllum mínum lífs nauðum, miskunsamur í minni síðurstu neyð, myskunsamur fyrir þeim ytsta og stránga dómi. Snú þú þínu augliti til mín, þá eg rata í freistíngar til hughreistíngar, þá eg sit við þeirra dynjandi Babýlons vatna nið til gladníngar, þá eg geing í myrkrunum til upplísíngar, þá eg geing í ofnar-hitanum til endurnæríngar,

undir þessum lundimum vil eg hylja mig svo eingin bruna sól freistínganna brenni mig. Gef þú mér frid! frid vid þig umfram allt, þú blessadi fridarins Gud! frid vid mína sam- vitsku, frid vid alla menn, ad svo miklu leiti sem mögulegt er, en eilífann ófrid vid djöf- ulinn og alla synd, og svo loksins ad útendudu öllu mínu hérvistar mædu strídi, eilífann frid hjá þér í fridarins tjald-búdum, Amen!

## Bæn um Guds hlífd og varatekt.

O þú lifandi Gud og Lausnari heimsins! sem madur gjördist til mannanna hjálprædis, og mannlegum eymdum á þig hlódst, svo þú kynn- ir mönnunum ad sampínast! eg vesæl manns- eskja krýp og qveina fyrir þínum fótum nidur- slegin af byrdar þúnga minnar náttúru, sem full er af fánýtum gyrndum og fallhættri djörf- úng til syndarinnar. O Drottinn! þú veitst minn uppruna í þennann daudlegleika, þú veitst og þann vanmátt sem þadan er flotinn og hversu mitt hjarta er fávíst, mín umþeinking hégómleg, minn skilníngur efasamur, lystíngin saurug, sinnid óstödugt, samvitskan vangætin, og optlega í fjötur færd af limanna lögmáli. Þér er og ecki hulid, ad þetta skynjar minn ó- vin um mig, og af því hann finnur sér lidug-

ann veg ad heimsækja mig og hrinda snörum fyrir minn fót, þá er eg og svo vodann viðkominn, sem hann er með vodann útbúinn. Mig felmtrar af þeim háska, sem fellur í kríngum mig og eg fæ ecki sjedann, af því flódi, sem dreckir án tilfinníngar, og af þeim eldi, sem brennir án sviða. Eg geing í draumi og rádgátu, og veit ecki hvað mér er nytsamlegt í þessu fáfeinga lífi. Til meðlætis gjörðir þú mig í Adam, og ei hefur þú þá tilhneigíng burttekið; þess vegna útvelur mín náttúra lyst að hafa; en sökum þess brjáls og blindleika, sem henni er af syndinni tilfallinn, sýnist mér opt hið vonda gott, og sæki því eptir eplinu dauðans, sem áverti lífsins. Hér fyrir má eg optlega*) hræðast minn hyggju-veg, og ósjaldan þenkja: að mínar rósir megi verða mér þyrnar: mitt lysti-hús, fánga hús; minn stafur, einn brotinn og stínghættur reyrsproti: hvað mín augu gleður, kunni þau út að stínga; hvað eyrun lockar, æruna að bleckja; hvað holdið fælgjætir, sálina að deyða, auk þess að gyrndin gnæfir í mínu hjarta, sú er andann veikir og sannleikssins hugboð yfirstígur. Herra Jesú! hygðu þar að, og settu mína mæðu í sjálfs þíns hönd. Eg er í framandi

*) mattlega.

voda, og veikir þúngt ad gégnum þreyngjast. Í stríd útleiddur, en kann ecki vopnum ad verjast: í bylgjum staddur, en stjórnin reykar og skuggi næturinnar umkríngir*) mig. Trúfasti Jesú! kom þú til mín á myrkvum bárum, og fleyttu**) mínu lífs skipi ad landi. Viljir þú ecki taka mig burt úr heiminum, þá vardveittu mig fyrir heiminum, og því vonda. Viljir þú nockud skicka***) edur samþyckja til minnar reynslu, láttu mig þó ecki reyndann verda yfir þad eg stadist gét. Sjáir þú ad óvinir mínir setjist ad mér hættulega, géf þú mér rád og farsæld ad umflýa þeirra umfall. Sjáir þú ad þeir muni mig yfirfalla, herleiddu þá í burt frá mér. Hafi eg traust hjá mønnum, sem mér stofnar í blindann voda, gjør þá vid mig sem Davíd í Kegila, og fríadu mig fyrir alvitsku þína. Hafi eg traust á mønnum, sem trúnad bryghda, og eptir mínum óførum stunda, gjør þú rád þeirra ad eingu, sem Achitóphels, og fríadu mig fyrir trúfesti þína. Hafi eg vinfeingi manna, sem leitast vid ad locka mig til elsku og árædis illra verka, géf þú mér vængi til ad flýa þar frá, og fríadu mig fyrir réttvísi þína. Láttu mig ecki dragast í samband med ógud-

*) upphefur sig. **) flyttu. ***) leisa.

légum; lát einga glæpa kúgun yfir mig gánga. Herra Jesú! haldtu mínu hjarta til þín, þá heimurinn krefur þess, og geym þú mig heimuglega í þínu tjaldi fyrir øllum áhlaupum myrkranna hers. Settu þinn ótta fyrir mínar lífs-dyr! þrengist eg af illum girndum, géf þú mér styrk ad mótstanda þeim. Vanmegnist eg, víktu frá mér hrøsunarinnar tækifæri; minnstu þau føll, er þú þoldir minna vegna medal illvirkja, og láttu mig ecki hrasa medal ræníngja; en ef þú þad lídur fyrir þíns réttlætis sakir, þá láttu mig ecki fallinn liggja. Þess bid eg þig, minn Frelsari! fyrir þinn blódúga sigur, og allt hvad þú hefur mér til miskunar unnid: láttu einga synd yfir mér drottna; því hvert gagn er þér ad mínu blódi, sem þú keyptir med þínu, þá eg ligg fallinn til eilífs dauda. Haldtu því sigrinum þinnar hægri handar, haldtu þínu herfángi, haldtu kraptinum eilíflega*). Eg fel allar mínar andvarpanir undir þína fyrirbón, allar mínar lídíngar og freistíngar undir þinn sigur, og alla mína þørf undir fyrirheit þinnar miskunar, þú sem ert Gud alls hjálprædis, blessadur ad eilífu, Amen!

---

*) Haldtu rétti þinnar borgunar eilíflega. *add. al.* Exempl.

# Bæn um fyrirgéfníng syndanna, styrkíng trúarinnar, eblíng þolinmæðinnar, og að-stoð Guðs í øllu mótlæti.

Eilífi góði Guð og allra kjærasti Faðir! hvers réttlæti eckért er gagnstæðara enn synd og ránglæti dauðlegra manna! eg vesæl sképna, gétinn af syndsamlegu sæði, fædd af syndugr-ar móður lífi, fóstruð í synd og seld undir synd um alla mína útlegðar daga, styn og and-varpa upp til þín, mitt einasta nauð-hjálpræði! mín bønd ern hørð, mín byrði þúng, minn máttur er þrotinn, því syndir mínar aðskilja mig frá þér; þær eru stærri enn eg géti þær borið, fleyri en hárin á mínu høfði og þýngri enn sandurinn í hafinu. Eg hræðist mín verk: eg heyri dómsins reiðarþrumu í mínu hugskoti: eg sje hennar eldíng í øðrum heimi: eg finn og dauðans umsvif í mínu holdi, og veit ei nær enn eilífur uppskéru-tími allra minna synda sáð-verka grípur mig. Á þessári hættu-flaug, hrópa eg: Drottinn! dæm þú mig ecki eptir mínum verkum: Drottinn! burt taktu mína synd: Guð míns réttlætis! hlíf þú mér: Guð

míns hjálpræðis, væg þú mér! eg sveima í andkøfum syndanna flóðs, og vøtnin þreingja sér inn að minni sálu: lífsins Guð! lítu mér uppá þurlendið: samleiksins Guð! greið þú gøtu mína: friðarins Guð! frelsa þú mig af ángist og dómi. Mitt líf er sífeldur synda-blóðvaðall: æ Drottinn! láttu mig ecki drucna í þessu flóði, heldur drecktu øllum mínum blóðskuldum í Jesú saklausa blóði! hans hjarta-blóðs úthelling burt hreinsi alla blóðskuld míns hjarta: hans handa blóðs úthelling, all-ar blóðskuldir minna handa: hans høfuð blóðs úthelling, og alls hans dreyra drjúp-andi holds, allar blóðskuldir minnar túngu og allra líkamans lima! eg sveipa mig undir Jesú blóð; eg hrópa mig í Jesú blóði uppá þinn eið, minn Guð! sem ecki villt minn dauða, heldur mitt líf og leiðrettíngu. Afmá þú mínar dauðlegar syndir fyrir lifanda Jesú blóð, og álíttu mig saklausann í hans sakleysi. Gef mér og framvegis umbreytt sinni, frá elsku til syndarinnar og alls þessa forgeingi-lega; en upptendrað í þínum ótta, þinni un-aðsemd og þíns ríkis eptirlaungun, allt til æfiloka. Eg berst við veika trú, sem blaktir eins og reyr fyrir vindi, vegna þíns réttlætis sem hræðir mig, og vegna míns ránglætis, sem

mædir þig. Styrk þú hana, heilagi sterki Guð! svo hún hverki villist frá þínum sannleika, né víkni frá þínum kjærleika: upplýs þú minn skilníng, svo eg viti, hvað eg skal trúa: inntaktú mitt hjarta, svo eg megni að trúa: lát mína trú ætíð byggjast á þínum orðum, alltíð huggast af þínum fyrirheitum, alltíð eblast í sinni reynslu, alltíð hvílast í sínum uppruna: þegar syndirnar særa mig, kénn mér að trúa, að þín náð í Kristó yfirgnæfi. Þegar óvinir mínir áklaga mig, að míns Frelsara fyrirbón sé mitt forsvar: þegar mitt hjarta fordæmir mig, að þú sért meiri mínu hjarta, og hafir vald og vísdóm til að réttlæta mig: þegar sorg og mótlæti sækir mér að höndum að þín hönd sé ecki stutt orðin, að þín hægri hönd kunni öllu um að breyta: þegar eg sakna svölunar þíns andlitis, að þú þá hyljir þig, til að auðmýkja mig, svo eg leitandi og biðjandi finni þig með sætari gleði: þegar eg skal deya, að eg muni þá deya til lífsins, að Jesús þinn Sonur sé mitt líf, og að deya minn ávinníngur. Blómga þú mína trú með heilagri þolinmæði, og géf mér það sinni, að hvert eg skal líða þitt eigið álag edur Satans edur mannanna, hvert heldur forþént edur óforþént, að eg taki það allt fyrir þinn kross og þinn

nú, Drottinn! allt það eg skal gjøra þér til dýrðar, mér til nytsemdar og náúnga mínum til góða á þessum deigi, varðveittu minn anda ásamt sálunni og líkamanum, varðveittu mig fyrir mínu eigin holdi, heimsins hrekkvísi, og øllum djøfulsins áráslum og meinvættum: í einu orði, fyrir øllu því sem íllt er til lífs og sálar. Láttú þína ásjónu lýsa yfir mig. Ásjónu þinnar þeckíngar fyrir bjartleika sakir andlitis Jesú Kristi; ásjónu þíns fylgis og vara-tektar svo sem þú lýstir í elds og skýs stólpa fyrir Israel; ásjónu þinnar miskunar, hverja Petur þinn Postuli sá þar inni í Byskups stofunni forðum; ásjónu þinnar umsjónar, og hug hressandi meðaumkunar er lýsti yfir *þína* signuðu sorgbitnu móður. Sértu mér miskunsamur þá eg rasa, til að reisa mig á fætur, þá eg stend til að halda mér við, fyrir þá hægri høndina þíns réttlætis, vertu mér miskunsamur í øllum mínum lífs nauðum, miskunsamur í minni síðurstu neyð, myskunsamur fyrir þeim ytsta og stránga dómi. Snú þú þínu augliti til mín, þá eg rata í freistíngar til hughreistíngar, þá eg sit við þeirra dynjandi Babýlons vatna nið til gladníngar, þá eg geing í myrkrunum til upplísíngar, þá eg geing í ofur-hitanum til endurnæríngar,

undir þessum lundinum vil eg hylja mig svo eingin bruna sól freistínganna brenni mig. Gef þú mér frid! frid vid þig umfram allt, þú blessadi fridarins Gud! frid vid mína samvitsku, frid vid alla menn, ad svo miklu leiti sem mögulegt er, en eilífann ófrid vid djöfulinn og alla synd, og svo loksins ad útendudu öllu mínu hérvistar mædu strídi, eilífann frid hjá þér í fridarins tjald-búdum, Amen!

## Bæn um Guds hlífd og varatekt.

O þú lifandi Gud og Lausnari heimsins! sem madur gjördist til mannanna hjálprædis, og mannlegum eymdum á þig hlódst, svo þú kynnir mönnunum ad sampínast! eg vesæl manneskja krýp og qveina fyrir þínum fótum nidurslegin af byrdar þúnga minnar náttúru, sem full er af fánýtum gyrndum og fallhættri djörfúng til syndarinnar. O Drottinn! þú veitst minn uppruna í þennann daudlegleika, þú veitst og þann vanmátt sem þadan er flotinn og hversu mitt hjarta er fávíst, mín umþeinkíng hégómleg, minn skilníngur efasamur, lystíngin saurug, sinnid óstödugt, samvitskan vangætin, og optlega í fjötur færd af limanna lögmáli. Þér er og ecki hulid, ad þetta skynjar minn óvin um mig, og af því hann finnur sér lidug-

ann veg ad heimsækja mig og hrinda snørum fyrir minn fót, þá er eg og svo vodann vid-kominn, sem hann er med vodann útbúinn. Mig felmtrar af þeim háska, sem fellur í kríngum mig og eg fæ eckí sjedann, af því flódi, sem dreckir án tilfinníngar, og af þeim eldi, sem brennir án svida. Eg geing í draumi og rádgátu, og veit ecki hvad mér er nytsamlegt í þessu fáfeinga lífi. Til medlætis gjørdir þú mig í Adam, og ei hefur þú þá tilhneigíng burttekid; þess vegna útvelur mín náttúra lyst ad hafa; en sökum þess brjáls og blindleika, sem henni er af syndinni tilfallinn, sýnist mér opt hid vonda gott, og sæki því eptir eplinu daudans, sem áverti lífsins. Hér fyrir má eg optlega*) hrædast minn hyggju-veg, og ó-sjaldan þenkja: ad mínar rósir megi verda mér þyrnar: mitt lysti-hús, fánga hús; minn staf-ur, einn brotinn og stínghættur reyrsproti: hvad mín augu gledur, kunni þau út ad stínga; hvad eyrun lockar, æruna ad bleckja; hvad holdid fælgjætir, sálina ad deyda, auk þess ad gyrndin gnæfir í mínu hjarta, sú er and-ann veisir og sannleikssins hugbod yfirstígur. Herra Jesú! hygdu þar ad, og settu mína mædu í sjálfs þíns hønd. Eg er í framandi

*) mæklega.

voda, og veikir þúngt ad gégnum þreyngjast. Í stríd útleiddur, en kann ecki vopnum ad verjast: í bylgjum staddur, en stjórnin reykar og skuggi næturinnar umkríngir*) mig. Trúfasti Jesú! kom þú til mín á myrkvum bárum, og fleyttu**) mínu lífs skipi ad landi. Viljir þú ecki taka mig burt úr heiminum, þá vardveittu mig fyrir heiminum, og því vonda. Viljir þú nockud skicka***) edur samþyckja til minnar reynslu, láttu mig þó ecki reyndann verda yfir þad eg stadist gét. Sjáir þú ad óvinir mínir setjist ad mér hættulega, géf þú mér rád og farsæld ad umflýa þeirra umfall. Sjáir þú ad þeir muni mig yfirfalla, herleidtu þá í burt frá mér. Hafi eg traust hjá mønnum, sem mér stofnar í blindann voda, gjør þá vid mig sem Davíd í Kegila, og fríadu mig fyrir alvitsku þína. Hafi eg traust á mønnum, sem trúnad bregda, og eptir mínum óførum stunda, gjør þú rád þeirra ad eingu, sem Achitóphels, og fríadu mig fyrir trúfesti þína. Hafi eg vinfeingi manna, sem leitast vid ad locka mig til elsku og árædis íllra verka, géf þú mér vængi til ad flýa þar frá, og fríadu mig fyrir réttvísi þína. Láttu mig ecki dragast í samband med ógud-

*) upphefur sig. **) flyttu. ***) leisa.

legum; lát einga glæpa kúgun yfir mig gánga. Herra Jesú! haldtu mínu hjarta til þín, þá heimurinn krefur þess, og geym þú mig heimuglega í þínu tjaldi fyrir öllum áhlaupum myrkranna hers. Settu þinn ótta fyrir mínar lífs-dyr! þrengist eg af illum girndum, gef þú mér styrk ad mótstanda þeim. Vanmegnist eg, víktu frá mér hrösunarinnar tækifæri; minnstu þau föll, er þú þoldir minna vegna medal illvirkja, og láttu mig ecki hrasa medal tæníngja; en ef þú þad lídur fyrir þíns réttlætis sakir, þá láttu mig ecki fallinn liggja. Þess bid eg þig, minn Frelsari! fyrir þinn blóduga sigur, og allt hvad þú hefur mér til miskunar unnid: láttu einga synd yfir mér drottna; því hvert gagn er þér ad mínu blódi, sem þú keyptir med þínu, þá eg ligg fallinn til eilífs dauda. Haldtu því sigrinum þinnar hægri handar, haldtu þínu herfángi, haldtu kraptinum eilíflega*). Eg fel allar mínar andvarpanir undir þína fyrirbón, allar mínar lídingar og freistíngar undir þinn sigur, og alla mína þörf undir fyrirheit þinnar miskunar, þú sem ert Gud alls hjálprædis, blessadur ad eilífu, Amen!

*) Haldtu rétti þinnar borgunar eilíflega. *add. al.* Exempl.

# Bæn um fyrirgéfníng syndanna, styrkíng trúarinnar, eblíng þolinmæðinnar, og aðstod Guds í øllu mótlæti.

Eilífi gódi Gud og allra kjærasti Fadir! hvers réttlæti eckért er gagnstædara enn synd og ránglæti daudlegra manna! eg vesæl sképna, gétinn af syndsamlegu sædi, fædd af syndugrar módur lífi, fóstrud í synd og seld undir synd um alla mína útlegdar daga, styn og andvarpa upp til þín, mitt einasta naud=hjálprædi! mín bønd ern hørd, mín byrdi þúng, minn máttur er þrotinn, því syndir mínar adskilja mig frá þér; þær eru stærri enn eg géti þær borid, fleyri en hárin á mínu høfdi og þýngri enn sandurinn í hafinu. Eg hrædist mín verk: eg heyri dómsins reidarþrumu í mínu hugskoti: eg sje hennar eldíng í ødrum heimi: eg finn og daudans umsvif í mínu holdi, og veit ei nær enn eilífur uppskéru=tími allra minna synda sád=verka grípur mig. Á þessari hættu=flaug, hrópa eg: Drottinn! dæm þú mig ecki eptir mínum verkum: Drottinn! burt taktu mína synd: Gud míns réttlætis! hlíf þú mér: Gud

míns hjálpræðis, væg þú mér! eg sveima í andkøfum syndanna flóðs, og vøtnin þreingja sér inn að minni sálu: lífsins Guð! lyptu mér uppá þurlendið: samleiksins Guð! greið þú gøtu mína: friðarins Guð! frelsa þú mig af ángist og dómi. Mitt líf er sífeldur synda-blóðvaðall: æ Drottinn! láttu mig ecki drucna í þessu flóði, heldur drecktu øllum mínum blóðskuldum í Jesú saklausa blóði! hans hjarta-blóðs úthelling burt hreinsi alla blóðskuld míns hjarta: hans handa blóðs úthelling, all-ar blóðskuldir minna handa: hans høfuð blóðs úthelling, og alls hans dreyta drjúp-andi holds, allar blóðskuldir minnar túngu og allra líkamans lima! eg sver mig undir Jesú blóð; eg hrópa mig í Jesú blóði uppá þinn eið, minn Guð! sem ecki villt minn dauða, heldur mitt líf og leiðrettingu. Afmá þú mínar dauðlegar syndir fyrir lifanda Jesú blóð, og álíttu mig saklausann í hans sakleysi. Géf mér og framvegis umbreytt sinni, frá elsku til syndarinnar og alls þessa forgeingi-lega; en upptendrað í þínum ótta, þinni un-aðsemd og þíns ríkis eptirlaungun, allt til æfiloka. Eg berst við veika trú, sem blaktir eins og reyr fyrir vindi, vegna þíns réttlætis sem hræðir mig, og vegna míns ránglætis, sem

mædir þig. Styrk þú hana, heilagi sterki Guð! svo hún hverki villist frá þínum sannleika, ně vikni frá þínum kjærleika: upplýs þú minn skilníng, svo eg viti, hvað eg skal trúa: inntaktú mitt hjarta, svo eg megni að trúa: lát mína trú ætíð byggjast á þínum orðum, alltíð huggast af þínum fyrirheitum, alltíð eblast í sinni reynslu, alltíð hvílast í sínum uppruna: þegar syndirnar særa mig, kénn mér að trúa, að þín náð í Kristó yfirgnæfi. Þegar óvinir mínir áklaga mig, að míns Frelsara fyrirbón sé mitt forsvar: þegar mitt hjarta fordæmir mig, að þú sért meiri mínu hjarta, og hafir vald og vísdóm til að réttlæta mig: þegar sorg og mótlæti sækir mér að höndum að þín hönd sé ecki stutt orðin, að þín hægri hönd kunni öllu um að breyta: þegar eg sakna svölunar þíns andlitis, að þú þá hyljir þig, til að auðmýkja mig, svo eg leitandi og biðjandi finni þig með sætari gleði: þegar eg skal deya, að eg muni þá deya til lífsins, að Jesús þinn Sonur sé mitt líf, og að deya minn ávinníngur. Blómga þú mína trú með heilagri þolinmæði, og géf mér það sinni, að hvert eg skal líða þitt eigið álag edur Satans edur mannanna, hvert heldur forþént edur óforþént, að eg taki það allt fyrir þinn kross og þinn

réttferdugann dóm, gjøri þér þackir og gledji mig þar vid, ad þú typtar mig, en ecki út af hjarta, þú reynir mig, en ecki yfir megn fram, þú agar mig, en elskir þó og burtskúfir mér ecki. Varndveittu hjá mér ordid þinnar þolinmædi, sem alltíd minni mig á, ad ég er til þess madur gjørdur, ad eg skuli mótlætid lída, og ad einn þolinmódur andi hefur vísdóm og stigur. Lát mér æ fyrir hugskónum vaka þína þolinmædi, sem sparar mig, þíns Sonar þolinmædi, sem leid fyrir mig, og þinna heilagra trú og þolinmædi, sem hér stríddu og yfirunnu, svo eg beri mína byrdi og møgli ecki, þoli mótmælin og þreytist ecki, lídi óréttinn og hefni ecki, heldur gefi þér hefndina med hógværu sinni og eignist svo sálu mína í þolinmædi. Lát mig aldrei efa, ad þú munir fyrir fyrirlætid og vonina hjálpa mér: gjør mig ánægdann míns hlutskiptis, og gef ad eg æ med þolinmædi í gódum verkum stundi eptir eilífu lífi. Svo leingi eg skal lifa, leid þú mig, svo leingi eg skal lída, hress þú mig; svo leingi eg skal bidja, bænheyrdu mig. Vertu mitt hjálpræd í allri neyd, minn styrkur í øllu stríði, mitt frelsi í øllum þreyngingum, mín huggun í allri sorg, mín hvíld í allri mædu, mín hjartans unun, þá øllu heims yndi er frá

mér smíid, mitt gledilegasta athvarf, þá allir hafa mig yfirgéfid, mín fegursta sól í midjum daudans myrkrum, mín rósemd í andlátinu, minn hyrdir í grøfinni, mín dýrd í upprisunni, og allrar sælu, sigurs og vegsemdar ánægja í eilífu lífi. Amen!

## Bæn þúngadrar Qvinnu.

Ó þú allra hæsti, stóri og hátignarfulli Gud! sem alla hluti skapad hefur med þinni almættis hendi. Eg þacka þér hjartanlega, ad þú hefur sjed til mín í þinni miskunsemi, og blessad mig í mínum ektaskap med nýum barngétnadi. Ó minn gódi Gud! eg bid þig af øllu mínu hjarta, ad þú látir nú þessa þína skøpun eingu tjóni eda fordjørfun mæta, heldur virdstu hana nádarsamlega ad blessa og vardveita, bædi til sálar og líkama. Ó þú líknsami Drottinn! børnin eru þín gáfa og lífsins ávøxtur er einn skeinkur af þér. Svo hjálpa mér nú, ad eg megi medtaka þessa þína gjøf med hjartans þacklæti og elska hana lángtum meir, enn allt veraldarinnar gull og silfur: því þetta er þó ein manneskja, hverja þú hefur í Adam skapad eptir þinni mind, og sem svo dýrt er endurleyst med Jesú þíns Sonar allra heilagasta blódi. Æ minn

Drottinn! þú hefur forundrunarlega tilbúið fóstrið í mínu lífi, þú hefur samteingt það með æðum og beinum, klædt það með holdi og hørundi og blessað það með lífi og anda. Ó minn Jesú, og minn Gud! þú sem varst tilluktur um tilsetta mánuði í þinnar móður lífi, géfdu mér, að eg við hverja eina fóstursins hræríngu í mínu lífi, hugsi andagtuglega til þín, og varðveittu bæði mig og minn lífs ávøxt frá allri ólucku. En þegar mín stund er komin, að eg skuli fæða, þá géfdu mér, minn Gud og Lausnari! styrk og krapt þar til. Látu þá þitt almætti viðhalda mér, og þínar miskunar hendur lina minni pínu. Géf þú mér og þángað til bærilega heilbrygði, eptir þínum náðugum vilja! en síðan í fæðíngunni, láttu minn lífs ávøxt koma í ljós, með réttri, heillri og fríðri líkamans skøpun. Minn Gud! leið þú mig miskunsamlega á þeim tíma, og gjørdu mig þá að einni gladværri barna móður. Al þú í øllu ønn fyrir mér og mínum lífs-ávexti af náð og miskun þinni. O minn Drottinn! á þínar hendur fel eg bæði fóstrið og mig, þú hefur endurleyst ockur, þú trúfasti Gud sannleikssins! Amen.

Bæn:

## Bæn einnar Ljós-móður.

Herra Jesú Kristi! þú himneski lausnar-steinn og heilsugjøf allra manna, sem vald hefur lífs og dauða, og með hinni sømu hendi særir og umbindur, apturlæsir og upplíkur, til þinna hjálpar-hæða upphef eg mín augu, og bið þig, minn Guð og Frelsari! að þú nálægir þig í náð og krapti, þinni þúnga þjáðu skepnu, sem hér veinar fyrir þínum fótum. O Drottinn! afléttu nú þeirri byrðinni, sem þú hefur uppálagt og leistu hvað bundið er. Þú sem áður útleiddir hana af lífi sinnar móður og meðtókst hana frá móður lífi, greið nú dásamlega hennar fæðíngar hag, og gjør hennar myrkur að birtu; veittu mér náð og styrk að þjóna henni í þessari nauðsyn, með allri náqvæmd að hugga hana og með þínu fulltíngi að annast hennar þørf. Vertu hjá henni í neyðinni, þú lifandi Guð! og lífgaðu hennar anda, hennar þol og traust, hennar vón og bæn til þín. Tak hennar hørmúng þér til hjarta, og mík hennar ángist, fyrir þá hrygð og qvøl, sem þú barst í blóð-sveittu haldi hennar vegna. Lít hana miskunar augum, sem þína móður undir krossinum, rétt henni þínar hjálpar hendur, sem Petri á bylgjunum. Leið henni af þér heilsukrapt, sem hinni blóðfall-sjúku, og lát

hana bíđa þíns hjálpræđis í þolinmæđi, og ecki sleppa þér fyrr enn þú blessar hana. O Drottinn! varđveit þú hana og hennar fóstur frá øllu skađræđi: gef henni heilnæma lausnar stund, og lát allt skaplega gánga um hennar náttúrlegt efni. Vertu sjálfur ljós-móđir hennar barns, og svo sem þú hefur þađ lífgađ og nært undir hennar hjarta, svo gleđ þađ sama hjarta međ þess lausn og lífs útkomu í þessa heims ljós, og síđan međ þess andlegri lífgan og endurfæđíngu í heilagri skírn, svo hún sjái þar sitt og þitt sæđi, sinn og þinn føgnuđ, arf og hlutskipti. En þócknist þér ađ leisa þess líf úr mæđu, fyrr enn þađ njóti þessa náđar-innsiglis, þá gjør þađ ei síđur hólpiđ fyrir þína forþénustu og þíns anda heimuglegann krapt. O Jesú! kom og auđsýn þitt hjálpræđi! O Jesú! kénn þú mér ađ biđja, og haldtu mínu hjarta til þín. O Jesú! gjør viđ oss eptir þínu nafni; heyr oss í þínu nafni, og hugga oss fyrir þitt nafn. Amen!

## Híngađ lúta fylgandi andvørp.

Komi nú Jesús međ sinni náđ! komi nú Jesús međ sínu fulltíngi, komi nú Jesús í krapti og blessan!

Jesús vægi sálu þinni og veiti hægd líkama þínum!
Jesús upplýsi þig med sínu ljósi!
Jesús skýli þér med sínum fjødrum!
Jesús huggi þitt hjarta af sorgunum!
Jesús gledji þín marin bein!
Jesús grædi allar þínar meinsemdir!
Drottins Jesú augu álíti þig!
Drottins Jesú eyru bænheyri þig!
Jesú hønd hagrædi þér, hans hjarta miskuni þér!
Jesú pína hressi þig, Jesú kraptur styrki þig!
Jesú daudi lífgi þig!
Jesú blód-undir blædi þér vægd og frelsi!
Jesú blód sveiti gefi þér hægd og heilsu!
Jesú blódug mind sé þinn fridar speigill!
Jesú blódug tár þín sætasta hugsvølun!
Jesú blód marid hold mýki þér holdsins harm-qvæli!
Jesú blódspreingda hjarta sefi þín hrigdar andvørp!
Jesú blód-rodin bønd leysi þín blód bønd.

## Fáord minníngar vers,

### eptir þann merkilega Guds mann,

# Sr. Þorlák Þórarinsson.

### Uppsett af hans nafns Minnugum Elskara.

Lagid: Gud, Fadir, Son og Andinn hreinn.

Húma mjøg tekur heimi í, hrygda sverd margann skar, skjótt sorga rekur fyrir ský, fagra sól gledinnar, glaumurinn frekur gégnir því, til gjætslu ei vekur tídin ný, hvørn þann heilvita var.

2. Þeinkja samt mættum þad vid ber, (þúng tíd af undrum rýf!) ad ef ad gjættum sumt, med sér, sorg færir neyd og kíf, svo lifnadinn bættum, af því er, umvafid hættum veikt sem gler, mannanna mjøg er líf.

3. Sorganna køsum sýnist veitt, sármædd-um hjørtum ad, daudans og krøsum drjúgum beitt, dýrmætt líf finnur þad, dæmi þar høs-um uppá eitt, af því hástøsum grætur heitt, margur í mørgum stad.

4. Greint skal hvad veldur gledinnar, géfst valla føgur von, samt því ad hreldur sorgir bar, sérhvør madur og kon, bygdunum seldur dýrstur þar, daudans feldur af sverdi var, Þorlákur Þórarinsson.

5. Sem djákni fræddi bygda hár, Drottins kjær úngvidi, med blídlindi ræddi og bæna tár, fyrir børnin lét Gudi í té, nærdi og fæddi fjórtán ár, Frelsarans gjæddi þeckíng klár, andleg Guds aldin=tré.

6. Frelsarans hjørdu fódra réd, (feingust graslendi klár), sem trúlyndur vørdur tryggt med géd, tuttugu og átta ár, hjørtum sorgmørdu huggun tjed, hvergi sást spørd, því stór var léd, vitska og vísdómur hár.

7. Hann sá ágjætti Herrans þjón, á himnum sem fagnar nú, Prófasts embætti ad Presta bón, prúdur héldt árin þrjú, geistlega kjætti géds um frón, med gódsemdar hætti og frídri útsjón, opt fluttist saga sú.

8. Þessa sáluga og sæla manns, segjast ár hjúskapar, hins fjórda tugar fimm til sanns, fram svo lífs skeidid bar, en fyrirhugud æfi hans, uns til ad bugar fjørsins stans, sextíu og tvø søgd var.

9. Skapnadar blóma skjærum best, skrýddist, sem hér innbind, til limanna sóma lagdist flest, ljós, svo ad á var hind, fagur rómur og mikill mest, mundi tídt hljóma: ó þann Prest! sem bar svo mannlega mynd.

10. Adqvæda madur mikill hann, mundi á sinni tíd, djúpt grundvalladur kallast kann,

kostjæsinn fyrr og síd, hugspekin stad hjá honum sann, heyrdist æ þad nær tala vann, rædan fögur og fríd.

11. Kénníngin fræga rann fram rétt, röggsemd og blídu med, stroffunin væg, en þó svo þétt, sem þursti lífernid skéd, hugguniu þæga hinum sett, og hrefsíngin næg, sem báru mett, af hörmum hjarta og géd.

12. Sérhverjum þénti hins sæla dád, svölun fékk endin þyrst, Gudlausum benti og gaf til rád, glæpi svo varadist, fridleisid grennti, þar sem hjád, þreingíngin spennti og freysting brád, hjörtun, med lagi og lyst.

13. Jafnan gudhræddur, ritud rád, rækjandi Postulans, kjærleikans gjæddur glæstri dád, til Guds og náúngans, trú og von klæddur, tára sád, tídum þó mæddur seldi á lád, þvarr ei þolgjædi hans.

14. Bæninni heitu heims í rann, hærstum med andans þrótt, af hjartans reitum innstu hann, offradi dag sem nótt, til himinsins leita í hrygdum vann, hjálprædid neyta af því sann, margur madurinn fljótt.

15. Einlægni skyldur, þel bar þídt, þagmælsku=nr, ordgjætinn, hreinskilni syldur, fridgjarn tídt, fast=rækur, gódvikinn, aumum fékk mildur braudi bítt; í besta gyldi um frónid vídt, er hann því álitinn.

16. Hróst upplyptir hans sem ber, um hérod Nordur=lands, skáldmæla gift sem þegi hver, þjód=ræmi og fagrann glans, spjöllunum svipt í öllu er, út mun ei skiptast morgum hér, ferill ad feta hans.

17. Ordgnóttin skír frá ødrum skild, æ á grund=velli stód, lidug og dýr, med lista snild, lærdóms=rík, djúp og fród, óvída býr svo gáfa gyld, gódu þó stýri ad Herrans vild, vitrir af vorri þjód.

18. Lækninga mentin enn var eitt, á honum blómlegt skart, sjúklíngum þénti og gaf þeim greidt, grædslu þó lidi hardt, voda=mein grennti; naum=ast neitt, nockurn þad hendti, ad seingi ei veitt, einhverja umbót snart.

19. Á søgdum vegi, lífsins leid, lauk Guds ást=vinur trúr, von er þó megi af hvarma heid, hrynja táranna skúr, margur sem þreyir þess manns deyd, þvílíkann eigi skada beid, hans saknar sæti úr.

20. Hvad skal þó sorga? hrygda smeck, hugsun þú deysa skal, dygdanna borgun fagra féck, frá=leystur tára dal, af mædunnar torgi Guds vin géck, gledinnar morguns byrta þeck, hann kjætir himna í sal.

21. Hann er inngeinginn himininn, hørmúnga gégnum slód, sannann og feingid sigurinn, sjálfs fyrir lambsins blód, hédan af eingin hørmúngin, honum ad þreyngir nockurt sinn, ó þau umskipti gód!

22. Réttlætis skjæru skarti réd, skrídast þá burtnumdist, sælan frábær hans gledur géd, gnæf=andi hjartans lyst, lambinu fær nú lofgjørd tjed, líka prís, æru, heidur med, í ædstu unúnar vist.

23. Grafar þó bóli hans bleiki nár, byrgist fyrst utan grønd, í Guds fridar skjóli, skild vid tár, og skínandi Jesú hønd, lambsins hjá stóli ljóma klár, sem lifandi sól um eilíf ár, lifir hans leysta ønd.

24. O þér hans kjæru ástvinir, og dóttir menta fríd! harmi þúngbærum hrindið þér, hugsið sú kémur tíd, samfundum nær ed samanber, sambúdin væra aldrei þver, þar ljóma born Guds blíd.

25. Angrædis sarmi yckar mest, afletti Jesús klár, þídlyndis varma þelid best, þerri hvert augna tár, hans blódreifda armi falin og fest, fram til þess harma eingin sjest, um endalaus gledi ár.

26. Jesús sem*deyddir dauda minn, þá dauðans slog leidstu hord, géf vel tilreiddur sérhvort sinn, sé eg nú hér á jord, vondu frá sneiddur, varfærinn, svo verdi innleiddur himininn, þar fagnar þín frelsta hjord.

27. Lofgjordin, valdid, heidur hár, hærst æra, speki, prís, vegsemd margfalda og kraptur klár, kjorinn sé þér og vís, þú Gud, hvers aldrei þverra ár, það skal vort gjald á medan stár, þín dýrdlega Paradís.



Seljast óinnbundin á Skrifpappír 60. ß. reidu Silfurs.



